9. Djeflar af døprum trega, dæmdir í heljar víst, bádu mjøg mikillega, mildastann Jesúm Krist: fyrst þadan færi út, ad hann ræki þá ecki, í undirdjúpanna hlecki, med kaldri qvøl og sút.

10. Frelsarans leyfi fengu, ad fara' í svínin þar, sem um þær grundir gengu, girnd sú djøflanna var; þau vóru tvø þúsund; øll strax med ógn og qvída, út í vatnid hýda, og suckú' á samri stund.

11. Svín-hirdar fullir sorgar, settu á flótta heim, báru þá fregn til borgar, um bagann, sem vard fyri þeim; hinir, sem hlýddu á, undrast og ótta fengu, almennt úr Stadnum gengu, svoddan tilburd ad sjá.

12. Hann, sem var ádur ódur, og enga skynsemd bar, sat nú sidferdis gódur, sannheill hjá Jesú þar; landsmenn þá litu hañ, hinir, sem hjá vóru staddir, í huga'og sinni gladdir, søgdu þeim allann sann.

13. Herrann blind-heimskir bádu: burt ad víkja um sinn; sálar gagnsins ei gádu, þeim gramdist fjárskadinn; svo villtir vóru þeir, hjálpar-von sæla hrepptu, henni viljandi slepptu, en mettu svínin meir.

14. Hann, hverr ed læknaſt hafdi, hér, ſem var ádur téd, Lauſnarann leyfis krafdi, ad líka færi med; en Jeſús ſló því af; farheldur heim til þinna, hjálprædid ſkalt þeim kynna, ſem Gud þér ſjálfur gaf.

## V.) Um kraptaverk Kriſts á braudum milli 5000 manns. Jóh. 6.

Med lag: Einn Herra eg beſt ætti.

Yfir um vatnid eina, ſem er í Galíleá, Jeſús med ſína ſveina, ſjálfur ferdadiſt þá, Tíberías nockud nærri (nafn þetta Stadurinn bar), Páſkum víſt var ei fjærri, ad venju Gydínga þar.

2. Fylgdi þeim múgur manna, mikill á þeirri tíd, gódvild hans ſáu ſanna, vid ſjúkann og aumann lýd; uppá fjalls-hædir einar, Endurlauſnarinn géck, líka hans Læriſveinar, litla ſtund hvíld þar féck.

3. Upp leit hann ljóſt ad bragdi, lýds fjølda mikinn ſjer, vid Philippum frá eg ſagdi: fólkid matlyſtugt er; til kaups hvar máttú meina, menn fái braudum nád? ſvo vildi ſveininn reyna, þó ſjálfur viſsi nóg rád.

4. Þá Philippus tók ad telja, tvøhundrud penínga verd, fram þó menn fengi'ad

selja, fullnægja mun ei gérd. Andreas á
þad heyrir, einn bródir Símonar, vildi ráð
veita fleiri, vidstaddur gaf til svar:

5. Ungmenni eitt eg kénndi, Andreas
mæla réd, fimm bygg-braud hefir í hendi,
hér og tvo fiska med, hvad skal þad þó fyri
þessa? þá talar Jesús hátt: segid, þeir
sái sér sessa, saman í ridlum brádt.

6. Herrann réd braudin blessa, braut og
til himins leit, fram báru sædu þessa, fyri
svo marga sveit; allir þeir urdu saddir,
eins af fiskunum med, og vel í gédinu gladd-
ir, Guds verk svo fengu sjed.

7. Leifunum saman safnid, Sonur Guds
þannig tér, og engu af þeim hafnid, svo
ekkert spillist hér. Er þad ei undur ad heyra,
allt þetta svo til bar, afgángs var ellu
meira, enn efnid í fyrstu var?

8. Tólf karfir fullar fengu (frá eg svo
Skriftin tér), og þær leifar afgengu, svo ek-
ert spilltist hér; fimm þúsund fæddi hin
hreina, Forsjónin mildigjorn, karlmenn upp-
talda eina, fyrir utan konur og born.

9. Um qvøldid lét Lærisveina, landinn
halda frá, hann var eptir alleina, ástar-
bæn gjordi þá. Mótvidri megnt þá þjádi,

mjög dymmt af nóttu þó; Jesús þar glöggt að gádi, gêck á þeim djúpa sjó.

10. Nær um fjórdu eikt nætur, nálgadist Jesús þá; þeir hafa'á þessu gætur, þóktust forinju sjá, upp kalla ótta mæddir, en Jesús ansar kjær: verið allir óhræddir, eg er hér sjálfur nær.

11. Pétur svaradi og sagdi: sértú það, Herra minn! bjóð þú eg komi' að bragdi, beint nú á fundinn þinn Far þú! qvað Frelsarinn mildi; forlét hinn skipið þá, og gêck, sem greidast vildi, gladlega sjónum á.

12. Báran réd brádt að steckva, biladi Pétur traust, hann tók þá senn að seckva, sagdi med hárri raust: hjálpa mér, Herrann blídi! hann Jesús að sér dró og spyr: því tæpt hann trýdi? til skipsins gengu þó.

13. Ord sitt og bús-ráð bædi, blessi oss Jesús hreinn, svo lífs og sálar fædi, sedji þá hvern og einn. Sjá til eg seckvi eigi, í synda daudann hér, heldur að hjálpast megi, háldtú vid trúna mér!

---

## VI.) Um þann, sem blindur var fædd-ur. Jóh. 9.

Lagid: Fadir á himna hæd.

Jesús frá Júda lýd, úr Jerúsalem þá tíd, útgéck sá øll mein grædir, um þad Jóhannes rædir.

2. Sat madur sjónlaus þar, sá blindur fæddur var, hardtnærri Herrans vegi, á helgum Sabbats degi.

3. Lærisveinar hann sjá, svo spurdu Herrann þá: hvert egin mun íllska' hans valda, eda foreldra gjalda?

4. Hverki (qvad Herrann snjallt), hann sín né þeirra galdt; Guds verk ega auglýsast og á honum ad prísast.

5. Verk Guds mér vinna ber, víst medan dagurinn er, ydju mann enga fremur, yfir þá nóttin kémur.

6. Eg er ljós heimsins hreint, Herrann taladi beint, medan umgengni mína, hjá mønnum læt eg skína.

7. Herrann þá hrækti á jørd, heilnæm var lækníng gjørd, saur hrærdi saman ad bragdi, svo vid hans augu lagdi.

8. Hann baud þeim blinda þá: í brunni Silóá, þvo sér skjótlega skyldi, ef skíra sjón edlast vildi.

9. Hann géck og gjørdi svo, greidt nam sín augu þvo, heilskygn kom þá heim aptur, Herrans því olli kraptur.

10. Náttúran borin blind, bleckt er af margri synd; minn Jesús mig upplýsi, mér á hjálpar veg vísi!

## VII) Um Lazarum af dauda uppvakinn. Jóh. 11.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Jóhannes segir med svoddann hætti: sjúkur madur eitt sinn lá, Lazarus, þad sorgum sætti, sá var í Bethaniá, systur tvær er innt hann ætti, ennur nefnist María.

2. Hún var þad, sem Herrans fætur, hentuglega smyrja réd, hári sínu svannin mætur, sídan aptur þurkar med, ordi lífsins gef ad gætur, í gudspjallinu svo er tjed.

3. Martha einig ennur heitir, ordi Drottins héldt sér ad, Lausnaranum, sem lækníng veitir, létu segja þegar í stad, sá þú elskar, sóttin þreytir; svaradi Jesús uppá þad:

4. Ecki' er svoddan sóttin eina, send honum til dauda fyrst, heldur ad Drottins dýrdin hreina, dásamlega auglýstist, ell þau fysikyn', eg má greina, elskud vóru þó af Krist.

5. Dagana tvo þar tefja rédi, tilsett var þad Herrans ráð, að vilja Guðs sú skickan skédi, hann skamtar tíma'af sinni náð; fylgdar-mennum Frelsarinn tédi: förum nú á Gyðínga láð.

6. Postular svara með gégndar gyldi, gjerla senn á þessa lund: Gyðínga fólk þig grýta vildi, þá gécksu þar um eina stund; hvar fyrir girnist Meistarinn mildi, meir að koma' á þeirra fund?

7. Tímar eru tólf í degi, taladi spekin guddómlig, birtu njóta maður megi, mun sá gánga réttann stig, hinn, sem ljósið hef. r eigi, hrasar opt og meiðir sig.

8. Lazarus vor vinur sefur, vekja fer eg aptur hann, þeir segja: batnað honum hefir, hvíld og værð ef finna kann, þenna skilníng þánkinn géfur, þeim um svefn náttúrlegann.

9. Lausnarinn þeim ljóst nam gégna: Lazarus dauður er til sanns, en eg fagna ydar vegna, að ei var eg þar í bygðum lands, vær skulum þetta framar fregna, förum nú og vitjum hans.

10. Thómas Postuli tók að segja, Tvíburi sá nefndur var, Lærisveina hug vill hnegja, hann gaf fyrir alla svar: látum

ofs fara' og líka deya, ljóst med honum einnig þar.

11. Kom af guddóms krapti hogum, Kristur til Bethaniá, Lazarus fyrir fjórum dogum, framlidinn í grefinni lá, úr borg og náunum bygdar-legum, bar ad marga Gydínga þá.

12. Þessir gættu gódrar skyldu, gengu í sorgar-húsid inn, géd-svolunar máli mildu, mæltu (svo eg ritad finn), hrelldar systur hugga vildu, harmandi eptir bródur sinn.

13. Martha heyrdi, Meistarinn kjæri, mildur kjæmi um þetta skeid og í nánd ad vísu væri, vildi gánga heim á leid, móti honum frá' eg hún færi, fyrst, en María eptir beid.

14. Angrud Jesú andsvar greidir: ef þú hefdir verid hér, bródir minn (því naudin neydir), nú lifdi, sá daudur er, en eg veit hvad um þú beidir, allt mun Drottinn géfa þér.

15. Aptur Jesús ansa nádi: upp skal rísa bródir þinn, vissulega, vísid tjádi, veit eg af því, Herra minn! hann mun verda lífs á ládi, þá ljómar efsti dagurinn.

16. Uppriſan og einnig líſid, er eg, ſagdi Jeſús þá; efalauſir um þad blíſid, allir, ſem mig trúid á, þó fundid hafid heljar kíſid, hverr mér treyſtir, lifir ſá.

17. Sá hér lifir enn med Anda, og á mig treyſtir heimi í, hættulegt má hel ei granda, hann ſkal verda dauda frí, ſviptur ellum ſálar vanda, ſegdu mér, ef trúir því?

18. Trúi eg þú ſért, qvad ſvanninn grætti, Sonur Guds med helgum ſid, og Kriſtur ſá, ſem koma ætti, ad qvitta af ſyndum mannkynid. Samtal þeirra' ad ſinni hætti, ſvo ſkildiſt hún Herrann vid.

19. Martha hrindir hordum módi, heimleidis med ſkyndi fer, vid Maríu gjördi mæla' í hljódi: Meiſtarinn er kominn hér, bídur þín ſá Grædarinn gódi, og gjörir bodſkap eptir þér.

20. Uppſtód María' og med ſkyndi, út géck frá þeim múga manns, ſvo hún dýrſtann Drottinn finndi, dundi vatnid hvarmarans, þá var Jeſús þýdur í lyndi, þar, ſem Martha kom til hans.

21. Fólkid ſjer, ad fljót úr máta, frá þeim víkur géſni líns, allra þeirra ein var gáta, ſem eſnid greinir hródrar míns:

eflauſt út hún géck ad gráta, hjá grefinni hans bródur ſíns.

22. Til Herrans kom med hrigdar talid, hjartad mæddi ſorgin ſtinn, ángur í brjóſti fann hún falid, féll á kné og ræddi'um ſiñ: hefdir þú hjá oſs, Drottinn! dvalid, daudur-væri'ei bródir minn.

23. Þegar hann ſá ad ſorgar-pláta, ſárt um hennar brjóſtid lá, fólkid allt í annann máta, ángrad leit þar ſtanda hjá, Sonur Guds tók ſjálfur ad gráta, í ſínum anda gramdiſt þá.

24. Sín á milli margur rædi: má nú ſjá hans elſku-géd, ſá, ſem blindann gjerla grædi, gat hann ecki vid því ſjed, ad daudinn ſvo yfir einn mann ædi? almúginn þad mæla réd.

25. Lazarus hvar lagdur væri, Lauſnarinn ſvo ſpurdi ad; en þeir ſvara ſvo, ſem bæri: ſjá þú, Herra! þenna ſtad. Miſkun trúi'eg hjartad hræri, hrigdiſt Jeſús enn vid þad.

26. Til grafarinnar Herrann hreini, hér næſt ſjálfur gánga vann; hún var byrgd med ſtórum ſteini, ſtrax baud þeim af taka þann; ſvo þeir gjerdu, ſem eg greini; ſagdi Martha þá vid hann.

27. Lífid finn eg fúlna' um sídir, fjóra daga hér þad lá. Ordum þessum Herr-ann hlýdir, henni aptur gégndi þá: sagdi' eg ecki, ef þú trýdir, ad þú mundir Guds dýrd sjá?

28. Til himins leit þá Lausnarinn mildi, losud sé, Fadir! gædskan sú, hvers eg af þér óska vildi, um þad mig bænheyrir þú, eg tala svo fólkid trúa skyldi, til þeirra mig sendir nú.

29. Lausnarinn kallar ljósum hljómi: Lazare! þú kom hér út. Hinn daudi hlýddi Drottins rómi, dsprum reyrdur líkbands-hnút; leysid hann qvad Herrann frómi, svo hédan gángi firrtur sút.

30. Júdar margir trúa tóku, táknid slíkt er sáu þeir, ljúfum Jesú lotníng jóku, lofstýr þessi aldrei deyr., Pharísæarnir svika klóku, sig forherdtu æ því meir.

31. Því eg treysti og þad er mín trúa, þú ert, Jesú! lífid mitt, þá hédan burt frá heim skal snúa, held eg mér vid ordid þitt; sálunni vyrdstu sælu' ad búa, svo hún verdi' af naudum qvitt.



Stutt

Stutt innihald
# Pínu og Dauda
## Drottins vors Jesú Krists.

Lagid: Hvar mundi vera hjartad mitt.

Mér er af hjarta minnisstædt, miskunnar=verkid þad, Jesús var staddur í hrigdum hætt, harmandi þrísvar bad, Gydínga lid þó gengi' ad hrædt, greip hann og batt í stad, sálin hans var af sorgum grætt, sár pínan géck þar ad.

2. Hann hefir dregid, hrakt og hrjád, hardsvírud Júda drótt, med lygum, spotti, hróp' og hád; hrækjandi á hann skjótt, var honum hverki værd né nád, veitt um þá dymmu nótt; allt hann fordæmdi andlegt Rád, ei géck sú rædan hljódt.

3. Heidnum Dómara' í hendur féck Herrann. sú grimma þjód, almúginn fram þar allur géck, æpti med samfelldt hljód: fær hann á kross og qvala=beck, komi' yfir oss hans blód, mordíngja líf=gjøf meir var þeck, mjøg hætt þá qvølin stód.

4. O! hvad grátlegt aumkunar=verdt, eitt var, sem þar til bar; vid hardann

stólpann strengdur þvert, stód vor Lausnarinn þar, hærsta Guds Sonar holdid bert, húdstrýkt med svipum var, ædar, skinn, herund og svo skérdt, óskaddad fast ei par.

5. Þyrni-kórónan svida-sár, sundur hans ennid sleit, blódid uppfyllti augun klár og allann sjónar-reit; Frelsarinn bædi felur og blár, forsmán hverjum hann leit, last-ord, slög, spélni, spott og dár, sparadi' ei þræla-sveit.

6. Tré fimtán fóta lángt var ljóst, lagt á hans herdar hradt, breidt fjøgra álna þúngt med þjóst, þad herma bækur satt, uppgéfinn var med ørmædt brjóst, undir því þrisvar datt, um sídir fram þá ferdin dróst, á fjallid Golgatha bratt.

7. Særdur í kulda klædlaus þó, Kristur sat lánga tíd, á medan øll til bedullinn bjó, bana-verkfærin stríd, erþyrstum munni einn ad dró, edik gall-blandad níd, oddbrotna nagla øldin sló, í hønd og fót um síd.

8. Krossfestann hæddu hofdíngjar, og hverr, sem þar géck hjá, harmqvæli þúng og hádúng bar, Herrann um tíma þrjá, sídan burtslitin sálin var, syndlausu holdi frá, hjartad sárbeittur broddur skar, blód og vatn rann út þá.

9. Lastord og brixl framlidinn féck, falsara sögdu hann, flockur Prestanna fyrir því géck, fundu. Landsdómarann, bádu ad geymd sé grofin þeck, gánga svo ella kann, Lærisveinarnir fylltir fleck, flytji' burt líkamann.

10 Hermenn vopnada hann lét strax, halda mjeg sterkann verd, þar vakti inn til þridja dags, þjódin sú íllsku herd. Drottinn reis upp til dýrdar hags, frá daudum þegar úr jerd og sannrar Guds dýrdar samfélags. Sé honum þackargjord!

11. Gleym ecki þessu, sál mín sæl! svoddan vel merkja skalt, Sonurinn fyrir sekann þræl, saklaus leid þetta allt, slíkri hans elsku hrósa' og hæl, af huga' og munni snjallt; sigurvers Kristi sýng og mæl, sætt fagnandi ávalt.

12. Ljúfasti Jesú! lof sé þér, sem leidst þann sára deyd, hvar med þú hefir hjálpad mér, úr hættri qvel og neyd; lát þú mig jafnan lifa, sem ber, lasta bönd af mér greid, elsku fadm þinn, þess óska' eg hér, yfir sál' mína breid!

## Ut af Upprisu historíunni.

Lagid: Gædskurikasti Grædari minn!

Hjartad fagnar og hugur minn, Herrann Jesús er upprisinn, qvel þó á krossi ætti; árla Sunnudags er þad skéd, ádur enn sólin lýsa réd, af Guds dýrdar almætti, þýdur, fridur, Engill kémur krapt-inn fremur, klárt og greini, af grefinni veltir þeim stóra steini.

2. Jardskjálfti mikill skédi þar, skjærasta ljóma Engill bar, vardmenn þá svoddan sáu, ótta miklum yfir þá fló, abl og styrkleika frá þeim dró, líka sem daudir láu, þegar, vegar, ljósid skapta, líssins krapta, loksins fengu, heim í borgina hriggvir gengu.

3. Hofud-prestana hittu senn, hermdu oll þessi tídinden, hinir þeim hétu gáfum. Segid ad Lærisveinarner, sóktu líkamann burt med sér, þegar vér þreyttir sváfum; hradir, gladir, gjaldid þyggja, þar ad hyggja, sídan segdu, líka sem Júdar þeim rádin legdu.

4. Ádur enn dagurinn upprann klár, útgengu af Stadnum qvinnur þrjár, María Magdalena, Módir Jakobs hins minna

var, með þeim líka Salóme þar, þær hugðust Kristi þéna, hriggvar dyggvar, Lausnarans vildu, að ljúfri skyldu, líkið smyrja, hver réð aðra þá hljóðt að-spyrja:

5. Hver mun burt velta hörðum stein? hindrar sá oss á marga grein; þegar, sem litu þángað, opin stóð gröf, en Engill var, alhvítu klæddur lítil þar, hræðsla réð hjartað fánga: Hljóðar, móðar, hriggvar qvinnur, sagði svinnur, syrgið eigi! upprisinn Jesúm eg yður segi.

6. Qvinnurnar glaðar gengu heim, Græðarinn Jesús mætti þeim, segjandi: verið sælar! þær féllu síðan fram til sanns, á fætur kystu Lausnarans; hann réð hýrlega' að mæla: eg bið, að þið, mínum blíðum, bræðrum þýðum, brátt það innið, í Galílæu hér fyrst mig finnið.

7 Magdalena á meðan fer, mjeg fljótt þángað, sem Pétur er, og Jóhannes með hönum, sagði; líkamann sælastann, sjá hvergi eg né finna kann, burt-tekinn væri' hann vonum; báðir, þjáðir, undrast þetta, er það frétta og án tafar, út þángað gengu ell til grafar.

8. Fyrstur Jóhannes framkom þar, fornam að grösin opin var, Pétur þá greidt

inngengur, sáu þar legð lín-klæðin mjúk,
líka og Jesú sveita-dúk, forundrun af því
fengu, allskjótt og fljótt, aptur snúa og því
trúa ellu' að sonnu, burt muni líkið bor-
ið af mennum.

9. Æpandi María úti stóð, inn í gref-
iña horfði fljóð, Englum tveim gaf að gæt-
ur; varð hún nú hrædd og vidleit þá,
vaktarann garðsins hugdist sjá; hann spyr
strax: hvað hún grætur? hún qvað: helzt
það, minn Herra þýður, hjartans blíður,
hér finnst eigi, eftnið fergar eg það segi.

10. Hafir þú berið hann burt með þér,
bið eg þú, Herra! segie mér, svo eg hann
þángað sæki. Maðurinn svarar: María!
Meistari! sagði' hún aptur þá, ei leyfði á
sér taki; ell hrigð og styggð, snýst í gledi,
skjótt það skéði, er Kristum kéndi, heim
til Postula hana sendi.

11. Hún kom strax og þeim kunngjörde:
Kristur af dauða risinn sé, atburði alla
sagði; hinar konurnar hermdu með: þær
hefðu líka Jesúm sjeð, líf og í ljúfu bragði.
Þetta, rétta, villu héldu, hug sinn hrelldu,
Herrans sveinar, sjónhverfingar það segðu
einar.

12. Til Emaus gengu einir tveir, um Herrans pínu tala þeir, þad skédi' á þessum degi; en svo til bar, sem segi'eg frá, sjálfur Jesús nálægdist þá, þó ad hann þeckti eigi. Hann spyr, hugkyrr: hvada hjalid, hrigdar talid hafid, brædur! Kleóphas ansar med kleckri rædu:

13. Ertú einn svo ókénndur mann, í Jerúsalem, ad gjerníng þann, sem er fyrí skömmu skédur, veitstú ecki? en hann spyr ad: honum Kleóphes sagdi þad: Jesús, sem oss var medur, hærstur, ædstur, af spádóms ordum og gædsku gjerdum fyri Gudi' og mennum, á krossi deyddur, þad sjálfir sonnum.

14. En nú í morgun árla víst, ádur enn féck af degi lýst, qvinnur frá oss útgengu, lifanda segdust líta hann, líklegt þad engum vyrdast kann, felmt af því allir fengu. Heimska, gleymska, qvad þá báda, Kóngur dáda, kénndi sídan, Kristur svo hefdi hlotid ad lída.

15. Alla Ritníng útleggja réd, opnadi þeirra hugskot med, Skriftina gloggt svo skilja. Kauptunid allir nálgast nú, nær því endud var leidin sú, gánga létst lengra vilja, beiddu, neyddu, Krist ad bída, qvádu

líða, á qvøldið nærsta, inn með þeim geng- ur mildin hærsta.

16. Settist til borðs og brauðið þar, blessaði, sem hans síður var, og síðan að þeim rétti, báðir í senn hann þecktu þá, þeirra sjónum hvarf burtu frá, harmi úr huga létti, hraðir, glaðir, Postulum hin- um, Herrans vinum, hér frá sögðu, eng- ann trúnað þeir á það løgðu.

17. Á sömu stund það svo til bar, sjálf- ur Jesús var kominn þar, og miðt í miðið stendur, þeim óskar friðar þessu nærst, þá var dyrunum aptur læst, sjá lét á sínar hendur. En þeir, því meir, urðu fegn- ir, óttaslegnir og því trúa, grát réði øll- um í gleði snúa.

18. Ecki var Thómas þá með þeim, en þegar seinna hann kom heim, þeir sögðu allt hið sanna; aldrei trúi' eg, hann ansa réð, utan að nagla-førin sjeð, fái með fíngri kanna; liðu, biðu, átta dagar, dýrð svo hagar, Drottinn fætur, að luktum dyrum kom mildur, mætur.

19. Hjá þeim stóð Herrann hýr í mið, hér nærst Thómas-svo ræddi við, og vill hann verði glaður: í nagla-førin lát fíng- ur þinn, fljótt legg mér hønd í síðu inn, vert

ecki vantrúadur. Drottinn, Gud minn! sagdi dyggur, trúartryggur, tvíburinn, fridur, aptur Jesús þá ansar blídur:

20. Sannlega, Thómas! trúdir þú, til- sýnd mín þessu elli nú, og eg enn framar segi: sæll er sá, hverr mig sjer ei hér, samt þó af hjarta treystir mér, huggun svo hljóta megi. Fleiri, meiri, jardteikn hrein fyri sínum sveinum sídar gérdi, ell þó ad greind hér ecki verdi.

21. Við Genezareths vatnid brádt, vóru þeir þá ..d fiskidrátt, enn sig opinberadi; Pétur adspurdur Krísvar þar, því játadi, sem vonlegt var, ad hann Jesúm elskadi. Býdur, býdur, líssins braudi sína saudi, Símon fæddi; um hans dauda og útfør rædd.

22. Fjorutíu daga Drottinn réd, dvel- jast hér Lærisveinum med, eptir upprísu dýra, til himna sídan hédan sté, hjá hend Fodurs almáttugre, situr vor hjálpin hýra. Amen! Amen! allar tídir lofi lýdir Lausn- arann góda, honum skal jafnan heidurinn bjóda.



Ann-



# Annar Parturinn
innihelдur nockra
## gudrækilega og andrīka Psálma.

---

## Fyrsti Flockur,
sem hefir í sér
tvo Nýars Psálma,
Qvøld og Morgun Loffaungva
og
einn Sjóferda Psálm.

### Nýárs-Psálmur,
qvedinn 1652.

Lagid: Lausnarinn Jesús lódinn kunni.

Arid hýra nú bid nýa, nádar gódur sendi landi voru Gud. Prautir láti frá oss flýa, fargi sorgum, endi grand og eydi naud. Alla fylli gledi-gædum, gædska og miskun Drottins blíd, í fastri ást og fridi af hædum, stødugir stædum, oss hann blessi ár og síd.

2. Jesú prísad nafn eg nefni, nýtt ár þetta komid heimi, vígi' er best, styrki verk og stofnud efni, stydji, grædi, auma geymi mildin mest; barn umskorna, dýrum dreyra; dreifi yfir hjertun mædd, synda-grand og fárid fleira, fjær ad keira, vyrd-ist dýrdin gædsku gædd.

3. Nýtt ár þetta gledilegt greidi, Gud á hædum vorum kjæra kénnidóm', sandi fædi, lýdinn leidi, ad lifi' í hófi, gjeri' og læri verkin fróm; hjerdin verdi hlýdug rád-um, hollum ollum þeirra mest; vari flugs ad fridum dádum, frid' og nádum, út svo rætist vondskan verst.

4. Yfir- ljúfa -menn á minnist, mildi-valdur Drottinn máttar Herra hár, sida-prúdir sannleik kynnist, Syninum þjóni, létti þrátt og grædin sár; oll í stilling log-in lagi, ljúfir, gjæfir, fróma vid, lasta sist þó vegi vægi, hnegi hagi, ad gódir lýdir finni frid.

5. Raunir hjóna mjúkust mýki, milskun ferska Grædarans lýda fyrr og síd, þolgéd helgad vaki; víki, výlid, bolid, neydin, qvídi, hversi strid, bornin einnig blídur nádi, og blessun vissa láti fá, Fadirinn

dáda'

báda' í fridar rádi, leidi á ládi, med lífi og gæfu stóra' og smá.

6. Ydur gledi-árid hýra, øllum heillum géfi vafid Jesús kjær; menn og qvinnur klára, Píra, Kristi ást þér ljúfa hafid fyrr og nær, undir hendi hvílid sælir, heillafullri Drottins hér; engann ángurs kulid kjælir, tál né tælir, þann af henni hulinn er.

7. Oss nú blessi Græðarinn gódur, og gáfur ljúfar sínar hreinar einnig med, ládid, lødur, gjædi gródur, gladt sé lopt, el píni neinar plágur séd, neytum ætíd litillátir, losid géfum Drottins nád, í Gudi blídum kjætumst kátir, mætast mát er, holl þau allir reyni rád.

8. Kasti verstu kostum lasta, Kristur bestur, hærstur, mestur, fólki frá: víst svo traustid festum fasta, fyrst og sídst þeim glæsta gésti ætíd á, ást þýdasta brjóst ei bresti, bistur þjóstur horfinn sé, geistum lasta-gusti fresti, losta lestir, flestir nærsta falli' í hlé.

9. Unni sannur oss og blessi, øllum heillum fylli sæll Emanúel. Í qvída, neyd og krossi hressi, þá qvilla-fullum, vill ó-dæll hér vinna vél; svinnir menn og mynd-

ug qvendi, máttugann Dróttinn lofid tídt, honum einum ofs afhendi, Amen! sendi, Ydur Jesús árid blídt!

## Annar Nýárs-Psálmur.

Lagid: Þock sé þér gód gjørd.

Arid nýtt nú á, í nafni Jesú sæta, byrjast blídt; þú þá, þess vel skyldir gæta, segjast vídt sú má, sælu fregnin mæta, sem bøl kann bæta.

2. Gud og mann módir, mey í heiminn fæddi, vorn blídann bródir, sem best øll meinin grædди, heimsins hann þjódir, helgri blessun gæddi, þó ádur eymd mæddi.

3. Fólki frid hreinann, fécк af dýrdar mætti, og Gud vid einann, allt mannkynid sætti, sælu sid beinann, sýndi' og hjartad kjætti, brot synda bætti.

4. Jesús hann heitir, hjálp og frelsan lýda, sælu sann-veitir, og svíptir øllum qvída, um løgmáls bann breytir, blessun géfur frída, med miskun blída.

5. Nafn þad sætt sanna, sælu' og gledi færir, hermum hættanna, haglega fortærir, alla ætt manna, endurlífgar, nærir, sorg þá ei særir.

6. Arið nýtt nafn þitt, náðar Herrann góði! géfi' oss blíðt, gagn sitt, í gleðum friði bjóði, náqvæmt, þýðt, við nauð qvitt, svo notkist manni' og þjóði, lán og lífs gróði.

7. Himin, láð, haf, flóð, hverja sképnu' og eina, foldar sáð, fjársjóð og frjófgun landsins hreina, blessi náð Guðs góð og græðíng veiti beina, án móðs og meina.

8. Kirkju stétt kjæra, Kénnimenn í landi, lát oss rétt læra, lifnað sinn hverr vandi, svo uppsett skjæra, samleiks skín ljómandi, stillt jafnan standi.

9. Skickun lands-laga, lýðs og stjórnar-ráða, yfirmanns aga, til æðstu heilla dáða, vyrðist haus haga, hendin líknar-bráða, er einn allt má náða.

10. Hjónin, hjú, börn blíð, bæi' og lýð um grundir, hend Jesú fræg, fríð, friði' á allar lundir; vor sé trú vernd þýð, vængjum Drottins undir, lífs lángar stundir.

11. Í háska' og hrigð qveldum, Herrann Jesús vægi, í ótta' og blygð öldum, ástin Drottins hægi, í stríði'og stygð dveldum, styrk veiti svo nægi, og allt vel lagi.

D

12. Við hreckja háð-sýndum, hlíf oss, Jesú blíði! frá huga bráð-blindum, bræðra heipt og níði, glæpa grá-lyndum, gudleysíngja lýði, róg, ráni, stríði.

13. Himins hnoss snjalla, helgast meyar sæði! oss geymi alla, frá óvina vélræði! kunni á kross falla, svo krenkja hjartað nædi, Guðs náð það græði!

## Morgun-Psálmur.

Lagið: Einn Guð Skapari allra sá.

A morgna þegar árla uppstá, eins á qveldin þá hvílast á, géf eg mitt líf og líka önd, ljúfi Jesú! í þína hönd.

2. Sálin hvílist og huggast mín, Herra Jesú! í benjum þín; bið eg: saklausa blóðið þitt, bleśsi og helgi lífið mitt.

3. Kristi! sem þoldir qvöl og pín, keyptir mér frið með blóði þín, í vöku' og svefni vert mér hjá, vernda mig öllum háska frá.

4. Guðs Engla skari skýli mér, svo skaði mig ecki djöflarner, í mínum krossi' og medlæte, minn Drottinn Jesús hjá mér sé.

5. Hvert heldur lifi hér eða dey, hjartað mitt við því qvíðir ei, glaður því mína géf eg önd, Guð sannleiksins! í þína hönd.

## Qvöld-Psálmur.

Lagid: Nú hefst nóttin og hylur dag.

Líknsami Gud og Herra hár, hvers vald og makt um eilífd stár, vér bidjum í Jesú nafni nú, nádar heyrn þinni til vor snú.

2. Ljósid dagsins enn dregst oss frá, dymmu náttmirkri yfir brá, líkaminn hvíldar leita fer, léttir þjáníngar svefninn er.

3. Þackargjørd blída born þín nú, bjóda þér oll med sannri trú, þócknist þér, Fadir! fórn sú víst, fyri vorn Herra Jesúm Krist.

4. Lof sé þér, Gud! fyri lidinn dag, líknin þín góð vorn aumann hag, verndad hefir frá hrigd og neyd, háskasemd lífs og brádum deyd.

5. Forlát þú oss nú, Fadir kjær! fjølda synda, sem gjerdum vær, leynd og opinber afbrot vor, afpláni nú þín gædskan stór.

6. Erfidi vort og vinnulag, vér sem nú hofum gjørt í dag, eptir sérhvers manns embætte, í þínu nafni blessad sé.

7. Géf oss nú, Drottinn! góda nótt, geym og vernda frá qvøl og sótt, frá brádum dauda' og beiskri pín, bevari' oss alla nádin þín.

8. Freistíngum djofuls frá oss snú, forinjur vondar burtrek þú, óværdar drauma ógnir þær, aldrei lát þú oss koma nær.

9. Lát þú oss dagsins ljómann hinn, líta ad morgni, Drottinn minn! svo med fögnudi þjónum þér; þess nú af hjarta óskum vér.

10. Gótz, heidur, lífid, æru og önd, o Drottinn Gud! í þína hønd, befolum vér med traustri trú, til vor nád þinni jafnan snú.

11. Guds Fødurs mildi, gædska og nád, Guds Sonar Jesú hjálpar rád, Guds heilags Anda hlífdin traust, hjá oss stadnæmist endalaust.

12. Heiløg Guds þrenníng hlífi oss nú, og haldi fast í réttri trú, ad hljótum sídan himna víst, hjálparann fyri Jesúm Krist.

13. Amen! þess allir óskum vér, Amen! vor Drottinn! lof sé þér, Amen! sé þad, sem eg nú bad, Amen! Jesús bænheyri þad!

## Annar Morgun-Psálmur.

Lagid: Mikilli farsæld mætir sá.

Lofi þig, Drottinn! himininn hár, og heiløg Engla sveit, allar þjódir um allar krár, allstadar lands um reit; því sannleikann þinn og miskun mest, mildi og tignin klár,

yfir oss öllum er stadfest, eilífa tíd' og ár; svo er og líka, sála mín! sonn og fullkomin skylda þín, lof Drottins bædi hátt og hljódt, á hverri stund' ad tjá; aldrei lát þér þad gleymast gott, gésins, sem lét þig fá, hann hefir uppá nýtt í nótt, naudum þér bjargad frá.

2. Lofadur sértú, lifandi Gud! fyri lidna nætur-stund, og þad veroldin uppljómud, er nú af dagsins fund; sól nú í heidi skjæru skír, skinid sitt veitir hlýtt, fuglar loptsins, fiskar og dýr, fagna þeim geisla blídt; skóg-trén, grösin og liljur lands, lifna og gledjast víst til sanns; þetta til dýrdar, Drottinn! þér, daglega þjónar allt; æ hvad skyldara mun þá mér, ad mikla þitt nafn ávalt, Guds ad líking, sem gjördur er, og gésid lísid snjallt.

3. Lof, heidur þér og þackargjörd, þrenníngin edla blíd, viljugur skal eg vanda' á jörd, varandi lífs um tíd; þú hefir jafnan hjálp mér veitt, úr háska' og daudans pín, frá mirkrunum til ljóssins leidt; lofud sé gædskan þín! óvina minna abl og slægd, afmád hefir þín guddóms frægd, enn þótt þeir byggi efnid vandt, med allri svika þrá, ad mér þú, Drottinn! gættir grandt, grimd

Þeirra bægdir frá, rángferdugra, sem ráð-
um kannt, rafka, svo hvergi ná.

4. Sein mig í nótt fyrir líkn og lið,
létst njóta máttar þíns, eins nú í dag um
náð eg bið, í nafni Frelsara míns; hindra
þú umsát andskotans, sem elskar lýgi' og
morð, svo verði sizt að vilja hans, verk
mín, þánkar né orð. Séfðú mér, Drott-
inn! hjartað hreint, hugsa og stunda ljóst og
leynt, laga-boð þín, sem létst oss fá, og lífs-
ins braut eg skil; í dag og hvern tíð héð-
an í frá, halda þau gjarnan vil, því Davíð
segir sæla þá, sem þar hafa lysting til.

5. Blessá þú, Guð! mitt qvinnu-kér, og
kjæru born á láð', blessaðú allt hvað hefi' eg
hér, hlotið af þinni náð; blessa vyrdstú
minn búskaps hag, byrgðir og matar-faung,
blessa útvegi' og vinnulag, svo verði' ei hegð-
an [raung; blessunar ædsti brunnurinn, bless-
aðú mig í sérhvert sinn, sé eg á ferd um
sjó eda jörð, sit, geng edur kyrr stend, hend
þín yfir mér haldi vörð, háska öllum frá-
vend, géf svo med þýðri þackargjerð, þín
náð sé viðurkénnd.

6. Í forsjón þína' og fodurhond, fel eg
nú, Drottinn! hér, líkama minn med lífi'og
önd, lán allt og heilsu-kjör; mitt svo eg akti

starf og stétt, stjórnadú minni lund, hér með einnig mig haldi rétt, á hrigdar og gledi-stund. Kristnihald mitt, kjærleik og trú, með krapti þínum, o Jesú! auka jafnan og efla vyrdst, uppá það sál mín fróm; dýrdarleg sái fyri þér birtst, þá ferdú ad halda dóm; kom, Herra Jesú! kom, sem fyrst, klárt gjör allt synda gróm.

7. Daudans þegar eg nálgast nótt, nádugur vert mér hjá, með bærilegri banasótt, beuda vyrdstú mér þá; í fadmi sælum ad sofna þín, sæti Fadir! eg kýs, óttalaus er þá endin mín, og eilíf gledi vís; sídan í lambsins ljóma klár, lofi hún þig um eilíf ár, þú, sem ad allt með ordi ber, einn Gud og þrenníng há, samhuga allir sýngjum þér, sigurvers himnum á; valdid þitt, dýrd og æran er, Amen! Hallelújá!

## Annar Qvøld-Psálmur.

Lagid: O Gud! sem geymir Ísrael.

O Jesú! þér sé þeck og lof, fyrir þína ást og nádar-gjef, vel hefir þú minn veikann hag, verndad og geymt um þennan dag.

2. Slíkni engin mig hendti hér, hlísd Drottins míns það veitti mér, Satan feck

ei að orka neins, sem önd' og lífi var til meins.

3. Jeg vil fyrir það Jesú kjær, játa þér vegsemd fjær og nær, af hjartans munni, hug' og raust; haldist þín vyrðíng endalaust.

4. Eilífann bið eg almátt þinn, ástkjæri Jesú, Herra minn! fyrirgéf öll mín afbrot ljót, í dag, sem framdi' eg þér á mót.

5. Dags-vinnan mín, sem drýgða eg hér, Drottinn minn góður! þóckníst þér, ebli þín blessan allt mitt ráð, auk mér von, trú og kjærleiks dáð.

6. Geymdu mig, Drottinn Guð! í nótt, frá grimmum voða, qvöl og sótt, svo óvin gjöri mér engin grönd, yfir mér sé þín hjálpar-hönd.

7. Luckuna, heilsu, lán og féð, líf og sálina einninn með, umsjón þinni eg allt það géf, óhræddur síðan ligg og sef.

8. Í Drottins nafni eg hvílist hér, hafðu, o Jesú! gát á mér, eg fel mig þinni elsku enn, og alla þína kristna menn.

9. Lof sé Feðurnum lesið og tjáð, lof sé vors Herra Jesú náð, lof helgum Anda allann tíd, Amen! lof sé þér þrenníng blíð.

---

## Dagleg Andvarpan.

Lagid: Hverr, sem ad reisir hæga bygd.

Heilla ljúfasti Herra minn! hjartans útvaldra yndi! uppveki mig nú Andinn þinn, endurnæríng svo finndi; eg er manneskjan alsaurug, afplána þad lifandi Gud, géf mér gladværdar lyndi.

2. Asetníng minn og ydjulag, eg þenkti ad lagsæra, þér til dýrdar ad þjóna í dag, þad veitstú nádin skjæra; en hvernin hefi eg aum mannkind, áreitad þig med marg-ri synd, þad vyrdstu ad lagsæra.

3. Lífdaga minna lýtin øll, lækna þú, Drottinn blídi! og mig hvítfága eins og mjøll, engu svo meini qvídi; æ! mig ángrar af allri rót, ad eg gjørdi þér syndga mót, heilla Fadirinn frídi!

4. Lángar mig nú af lífi og sál, lausn hjá þér, Drottinn! finna; þér er nú, Fadir! meir enn mál, meinanna bót ávinna; sætasti brunnur svølunar, signad herbergi vellystar, lát mig þér lofgjørd inna.

5. Grædi nú øll mín synda sár, signadar Jesú undir, himneska Fødurs høndin klár, hún sé yfir og undir; óqvídin er þá ønd-

ondin mín, í blídum nádar fadmi þín, lídi svo líssins stundir.

6. Réttlætis fagur qvístur klár, Konúngur dýrdar sæti, Engla fegurd um eilíf ár, útvaldra sálar kæti, allra trúadra elska' og von, er Jesús Guds og Maríu Son; géf þess eg jafnan gæti!

7. Innræt þú, Drottinn! ordid þitt, í mitt hjarta og sinni, þad sé lífdaga ljósid mitt, lifnad svo bæta kynni; eptir því lát minn greidast gáng, í gædsku þinnar og nádar fáng, þar svo þér þackir inni.

8. Miskunar þinnar mjúku nád, mikla eg æfi mína, mildasti Jesú! meyar sád, minnstú á barn-kind þína; fadma mig ad þér, Fadir minn! fyrir eingétinn Soninn þinn, lát ecki lidsemd dvína.

9. Set eg nú allt mitt traust og trú, til þín, minn Jesú gódi! ad mig af ástsemd elskir þú, og ádreifir þínu blódi; æ medan varir æfin mín, útbreida vil eg lofgjörd þín, bædi hátt og í hljódi.

10. Andvarpan þessa, ædsti Gud! álíttu'í miskun þinni! hjástod veittú í hverri naud, hygg ad grátbeidni minni; láttú mig ætíd lifa þér, líka deya, þá burtu fer. Lof þitt aldreji linni!

## Sjóferda-Psálmur.

Lagid: Náttúran oll og edli manns.

Drottinn líknsamur Herra hreinn, hjálparinn allra manna! þú, sem ad rædur ollu einn, ásísemdar mildin sanna, bænheyr þú mig, þess beidi'eg þig í blessudu Jesú nafni, med ljúfri nád og legg á rád, um lífs og sálar efni.

2. Þín nád þad hefir svo tilsett, ad sérhverr skyldi læra, embætti sitt ad ydka rétt, og med handbjorg sig næra, um land og sjó, en lidsemd þó, lofadir þeim ad veita, sem treysta þér og sídan sér, sinnar atviñu leita.

3. Nú vil eg eptir ordi því, í trausti nádar þinnar, á hafsins bylgjur fara frí, fædu leitandi minnar; sjádu mig nú, sæti Jesú! svo enginn háski grandi, til og frá hér hjálpa þú mér, hættulaust aptur ad landi.

4. Og sem þú gjordir ádur fyrr', óstyrkum Lærisveinum, þegar stormvindur þegi kyrr, þagnadi fyri þér einum, svo álít mig, nær ýfir sig, aldan og vedrid bleika, hasta þar á, en hugga þá hjartad mitt trúarveika.

5. Vardveittú mig og veg minn greid, vernd þín yfir mér standi, frá beiskri sorg og brádum deyd, bædi á sjó og landi; Jesús

minn trúr, eymd allri úr, einn kanntú mig að leysa, vertú mér næst, þá hér sem hæst, hafsins bylgjurnar geysa.

6. Stórann brim-sjó og sterkann vind, stodvi þín mildin sæla, íllra stórfiska ógna mind, ei lát mig kunna fæla; vængja-skjól þitt, fyri vardhald mitt, vil eg mér gjarna kjósa, svo megi' eg frí af fári því, frelsun þinni best hrósa.

7. Því vil eg leystur lofa þig, líssins um tídir mínar, þar heilog Guðs born halda sig, heidrandi nádir þínar; þack-offur eitt, í veikleik' veitt, vyrdstú af mér að þyggja, eilíf náð þín, á armi sín, mun i mér jafnan liggja.

8. Jeg geng til skips í Jesú nafn', Jesús minn hjá mér blífi, helgra Guðs Engla heilagt safn, hrædslu og sorg burt drífi, mig fel og þá, sem mér eru hjá, míns Jesú sjálfs í hendur; verum til frids, væntandi lids, vernd hans yfir oss stendur.

9. J Guds nafni og ótta enn, eptir hans nádar ordi, veidarfærunum vil eg senn, varpa frá skipsins bordi; þetta mitt verk, mískunin merk, minn Herra Jesús blessi! veiti hann mér, hvad vild hans er, von mín og bón er þessi.

10. Jesús oss veri ollum hjá, auga hans til vor sjái, háska og ógnum hrindi frá, svo hætta' ei granda nái; vort hjartans hús, helgi Jesús, hann oss í fridi leidi, óskum þess nú, allir med trú; Amen! sé þad eg beidi.



# Annar Flockur

inniheldur

## Heilræda- Vidvörunar- og Bænar-Psálma,

kristilegu líferni vidvíkjandi.

---

### Gyllini A B C

af Þýdsku útlagt.

Lagid: Nú kom heidinna hjálpar rád.

A einn Gud set þú allt þitt traust, adstod mannlegri trúir laust, fast standa Drottins fyrirheit, finnst valla trygd um veraldar-reit.

2. Best þinnar æru geym og gæt, gersemi sú er harla mæt, ef hún þér sleppur eitt sinn frá, engin er von til henni ad ná.

3. Christnum sómir ei saurugt hjal, sérhverr sinn munn vel geyma skal, með þögn sig enginn fortalað féck, fjølyrðtum jafnann illa géck.

4. Deil aldrei við þinn yfir-mann, elska skaltú og vyrda hann, þann minni-háttar hæð þú síst, hefnd fær drambsemi jafnan víst.

5. Ef þú nægd af auðæfum átt, engann veginn þig stæra mátt; þenk: að lán Drottins er það allt, af því reikníngsskap standa skalt.

6. Frómleika, dáð og dygdir með, dýrara haldt' en gull og féd. Þá heimsins auðlegð horfin er, hvert sinn gott mannorð fylgir þér.

7. Géf elmesu, ef áttu auð, og aumka þann, sem líður nauð, Guð, í hvers hondum heill þín er, hann mun líkt aptur gjalda þér.

8. Hafi þér einn til góða gért, góðminnugur þess jafnan vert; þackarlaus velgjørð (það er reynt), þúngt fellur manni ljóst og leynt.

9. Iðiun vertú á úngdóms tíð, erfiði lær, þar kémur um síð, uppskéra mun það ellin kyrr, sem æskan niður sáði fyrr.

10.

10. Kjært þó einn láti í eyru þér, ofmjeg honum ei trúa ber, munnurinn stundum mælir dátt, meinar þó (kannské) hjartad flátt.

11. Luckan hvert heldur mót' eda med, minnstu ad hafa stødugt géd, sjaldan er upphaf endíng' líkt, opt géfur raunin vitni um' slíkt.

12. Med reidum huga hendla' ei neitt, hvad til góds enda viltu leidt; margur í brædi verk þad vann, sem vard þó mest ad ydrast hann.

13. Nem þú og lær hvad nytsamt er, nær einhverr gott vill kénna þér; hyrda fáir um heimskann mann, hinn fær vyrdíng', sem meira kann.

14. Okénnt málefni aldrei mátt, úrskurda fljótt né dæma brátt, klagandans heyrdu sogn um sinn, sídann gjæt ad hvad talar hinn.

15. Prakt og hofmód þér hrind þú frá, hefnd færdi mørgum løstur sá, lítillátann lands-manna sid, lát þér nægjast ad blífa vid.

16. Qvilludum hug, sem stuclar styggd, stærri skaltú ei auka hrigd, goldid má verda aptur eins, sem ødrum gjørir þrátt til meins.

17. Raupa, sem sízt af sjálfum þér, þó sýnist nockud gjørt sem ber; egid lof jafnan lyktar verst, líkernid frómt sér hrósar best.

18. Sjá þig vel um, því verøld er flá, vondum selskap þig sneidir hjá; gudhræddum haldt þig gjarnan ad, gott nafn þér víst útvegar þad.

19 Tem þig ad elska ærú og svekt, þó allir þig ei losi frekt. Svo øllum lyndi, enginn mann, ord sín og gjørdir stilla kann.

20. Uppá heims aud og allt hvad er, aldrei þig reid, þad hverfur þér; sá má því haldast hygginn best, sem himnesk gjædi stundar mest.

21. Ven þig aldrei med agg og róg, ad samandraga fjárins plóg; þad ferst med sorg, sem fæst med synd, vid fridsamt braud þér un og lynd.

22. Xerxes Konúngur fordum frekt, forlét sig uppá vald og mekt, féck þó mínkun og sorg til sanns, sérhverr varist þó dæmin hans.

23. Yfir allt framm þú óttist Gud, elska og vyrd hans heiløg bod; ødrum rádhollur einninn sért, eins sem þú vilt ad þér sé gjért.

24. Zebaoth Gud øll veit þín verk, vert því lastvar, hans makt er sterk, fljótara

stilliſt hótud hefnd, enn hin, ſem er med framqvænid efnd.

25. Þig lær ſjálfann ad þeckja rétt, þreyngſt' ei heldur í neina ſtétt; hvad þú áformar ad því gá, endirinn hvernig verda má.

26. Ætíd minnſt' á þinn dauda-dag, dóm ſídaſtann og ſálar-hag; bid jafnan Gud ad géfa þér nád, gód og heilnæm ad ſtunda rád.

## Hvad vera egi athæſi kriſtins manns.

Lagid: Skaparinn ſtjarna, Herra hreinn!

Ef þú vilt góda fridſemd fá, fjølmælgi alla varaſt þá, gladt hjarta yfir gódu býr, gjarnan vert jafnan lyndis-hýr.

2. Í trúnni geym ſtillt og ſtødugt géd, ſtunda þar hreinann kjærleik med, eſlaus ſé bænin yfirbót, undandráttarlaus, klár og ſljót.

3. Ydrandi fyrir þín afbrot ſért, or vid fátæka jafnan vert, í gódum verkum ydinn beſt, íllt ad fordaſt viljugur meſt.

4. Fúslega gódri hirtíng' hlýd, hørmúng med þolinmædi líd, í látædi þínu ljúfleik ſýn, líka ſé hæverſk ſkickan þín.

5. Mjúkleik í kénníng' merkja lát, mæl við aðra með spekt og gát, vitna það eina satt reynt sé, um sérhvað dæm með réttvíse.

6. Því fáorðari finnstú hér, fjölmennið, sem þú meira sjer, því heilráðari þig hverjum tjá, honum sem meira liggur á.

## Heilræða Psálmur.

Með sínu lagi.

Viljir þú gédjast Guði vel, og góðum mennum hér, hreintrúað hafðu hjartans þel, og heiðra hans nafn, sem ber; orð Drottins lær með allri gát, ydka mest heita bæn, þackergjörð fagra fylgja lát, fórn sú er einka væn, hugsun vondri þér hrittu frá, henni géf aldrei rúm þér hjá, íllgresis fræið upp sé rætt, áður enn frjófgun nær, ské má, það sé við háska hætt, ef hreckja-rótin grær.

2. Æðri menn þér í heiðri haldt, hvern eptir sínni stétt, ljúflyndi við þinn líka skalt, láta í frammi rétt; glettstú aldrei við gamlann mann, gráhærðum vyrðíng ber, forsmá ei heldur fátækann, sem frómur og meinlaus er; móðga ei þann, sem mæðir syngð, meðaumkun sýn þeim líður hrigð, djarflega ecki-

ödrum lá, ávyrdíng hans né brest, þú veitst ei hvad þig henda má, haf gát á þér, sem best.

3. Fordastú þá, sem fara med smán, falsyrdin, háð og spé, lánleysi, slis og lucku rán, laun þeirra trú' eg sé, hótfindnin íll er engum þeck, athuga jafnan þad, ské má þú hafir ský edur fleck, ef skyldi þar grenslast ad, hlátur og késkni hafir sízt, heimskunnar merki þad er víst, klám, níd og hróp þú hata mest, hugsa um málsháttt þann: frómlegum sidum samtal verst, sannlega spilla kann.

## Um góda Samvitsku.

Lagid: Dagur í austri ollum.

Hvad verdur fegra fundid, enn fridur og rósamt géd, ángur úr huga hrundid, hjartad gladvært þar med? innbyrdis elskan hreina, med æru' í hverjum stad, heims eptirlætid eina, eflaust dæmi eg þad.

2. Gladur vilda'eg þú værir, og vondu hjá þig sneid, margt þó til böls þér bæri, bakmálug túngan leid; ef þinnar æru gætir, aldrei þú qvída þarft, sídar þá sennu mætir, sjálf lýgin dofnar snart.

3. Lán heims þig lát ei villa, luckunni svart þú tak, antigna engum ílla, allra-sízt þó á bak; opt einn að ødrum finnur, það ydkar hann sjálfur mest; hverr má svo hittast svinnur, að hafi'ei nockurn brest?

4. Heilbrygdi, hjartans kjæti, hér með samvitskan góð, ástvina eptirlæti, fyri utan trega'og móð, frómt líf og farsæll dauði, fylgjast með réttu að, af hverjum heimsins auði, helzt vilda'eg kjósa það.

## Um Luckunnar óstødugleika.

Lagið: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Allt heimsins glisið, fordild fríd, fegurdar prjál og skraut, fallvalt meinslisið fyrr og síð, flestellum reynast hlaut, allt eins og fis í hvassri hríd, hverfur snarlega'á brant, luckunnar blisið litla tíð, logandi óvart þraut.

2. Blómleg æskunnar edlis art, sem aldins jurtir beint, snemma upprunnar blika bjart, burtvísna'að qveldi seint; þeir gledi brunnar þorna snart; það hefi'eg sjed og reynt, vatns-rásir grunnar horfa hardt, hverfur svo tíminn leynt.

3. Lík-

3. Líkams heilbrygdin hrósar sér, haldin af ellum kjær, hennar þó trygdin afslepp er, óvissum tíma nær, sóttar andstygdin brádt ad ber, búkskerkum nidurslær, bleik dauda sigdinn sárbeitt sker, sólfegur blómstrin skjær.

4. Holdsins frídleikur, fegurd klár, og fraktin líkamans, sem limid eikur laufgad stár, lífid gledur til sanns, allt eins og reykur øll forgár, ásýndin hvarma-ranns, þar liggur bleikur, blódlaus nár, burt er fordildin hans.

4. Mannsins líf hraust, er allra innst, í ædum hjartans býr, mjeg þó ótraust og fallvalt finnst, fljótlega um sér snýr, vidstedulaust þá varir minnst, sem vindur í burtu flýr, ad láni hlautst, því laungum vinnst, litla stund æfin rír,

6. Heims audur sýnist holdsins art, hardla fagur til sanns, medan vidkliniſt kroppinn skart, kjætist géd fávíss manns, optlega týnist yfrid snart, ýmist til sjós eda lands, bersnoggur píniſt hugur hardt, hvar er þá gengid hans?

7. Margur hverr reisti um frónid fjær, féck þess ei verid án; annar med hreysti skárplóg fær, ser hinn med vél og rán, eitt

15. Mitt hjarta'í hjarta þínu, hvílast lát, Drottinn minn! eins þitt svo aptur mínu, innsigla sérhvert sinn; Son þinn sé minn, sálar vísdómurinn, en hræríng heilagur Andi, huggun og stjórn eblandi, til alls góds medan er, einkum þá deya fer.

16 Gudi sé lof! sem greidir, getu og veginn minn, um dyr mig daudans leidir, í dýrdar ríkid inn; lát heim, hans seim og hold med bádum þeim, hafa sinn hátt og læti. Herrann minn Jesús sæti, mér stendur mildur hjá, mest þegar liggur á.

## Annar Psálmur sömu meiníngar.

Lagid: Dagur í austri ollum.

Allteins og blómstrid eina, uppvex á sléttri grund, fagurt med fríjófgun hreina, fyrst um dags morgun-stund, á snöggu augabragdi, afskorid verdur fljótt, lit og blød nidur lagdi, líf mannlegt endast skjótt.

2. Svo bleypur æskan únga, óvissa daudans leid, sem aldur og ellin þúnga, allt rennur sama skeid. Innsigli engir fengu, uppá lífs-stunda bid, en þann kost undirgengu, allir ad skiljast vid.

3. Daudinn má svo med sanni, samlíkjast þykir mér; slíngum þeim sláttumanni, er slær allt hvad fyrir er, grefin og jurtir grænar, glóandi blómstrid fridt; reir, stör, sem rósir vænar, reiknar hann jafn-fánýtt.

4 Lífid manns hradt framhleypur, hefir þad enga bid, í daudans grimmar greipur, grefin tekur þar vid; allrar veraldar vegur, víkur ad sama púnkt, fetar þad fús sem tregur, hvert fellur létt eda þúngt.

5. Hvecki fyrir hefd né valdi, hopar daudinn eitt strik, fæst ísst med fögru gjaldi, frestur um augnablik, allt hann ad einu gyldir, hvert ílla líki' edur vel, bón ei né brædi mildir, hans beiska heiptar-þel.

6. Menn vada' í villu' og svíma, veit enginn neitt um þad, hverninn, á hverjum tíma, eda hvar hann kémur ad. Einn vegur öllum greidir, inngáng í heimsins rann, margbreyttar lítst mér leidir, liggi þó út þadan.

7. Abl daudans eins nam kreinkja, alla í veröld hér, skal eg þá þurfa' ad þenkja, hann þyrmi einum mér? Adams er edli runnid, í mitt náttúrlegt hold, eg hef' og þar til unnid, aptur ad verda' ad mold.

8. Hvecki

8. Hverki med hefd né ráni, hér þetta líf eg fann; sálin er, svo sem ad láni, samtengd vid líkamann; í Herrans höndum stendur, ad heimta sitt af mér. Daudinn má segjast sendur, ad sækja hvad Skaparans er.

9. Nú vel! í Herrans nafni, fyrst naudsyn ber til slík; jeg er ei þeirra jafni, sem jördin geymir nú lík; hvenær sem kallid kémur, kaupir sig enginn frí; þar læt eg nótt, sem nemur, neitt skal ei quída því.

10. Eg veit minn ljúfur lifir, Lausnárinn himnum á, hann rædur öllu yfir, einn heitir Jesús sá, sigrarinn daudans sanni, sjálfur á krossi dó, og mér svo aumum manni, eilíft líf víst tilbjó.

11. Med sínum dauda' hann deyddi, daudann og sigur vann, makt hans og afli eyddi, eckert mig skada kann; þó leggist lík í jördu, lifir mín sála frí, hún mætir aldrei hördu, himneskri sælu í.

12. Jesús er mér í minni, mig á hans vald eg géf, hvert eg er úti eda inni, eins þá eg vaki' og sef, hann er mín hjálp og hreysti, hann er mitt rétta líf, honum af hjarta' eg treysti, hann mýkir daudans kíf.

13. Jeg

13. Eg lifi í Jesú nafni, í Jesú nafni eg dey, þó heilsa og líf mér hafni, hræðist eg dauðann ei; dauði! eg óttast eigi, afl þitt né valdið gyldt, í Kristí kraptí eg segi: kom þú sæll! þegar þú vilt.

## Um kristilega burtför.

Lagið: Kom Andi heilagi.

Enn ber eg andar qvein, upp til Guðs hæða, hann kann mín margføld mein, mjúkast að græða.

2. Andvarp mitt ecki hann, úr frá sér rekur, hug gledur harmfullann, høndum vid tekur.

3. Mitt daglegt yndi er, á hañ að qvaka, eins á nótt sál mín sjer, sætleik hans vaka.

4. Er hún svo yfrið lyst, eptir þeim Herra, sem verøld vekva þyrst, vid sumar-þerra.

5. Rík girnd sú rennir opt, rétt ósedjandi, huganum hátt í lopt, hér þó eg standi.

6. J munniñ falla fljótt, fossarnir tára, innvortis er samt hljódt, andvarpid sára.

7. Kinnbeinin þar með þvæ, þau nockud svída, Guð sjer hvad sárt eg fæ, forgir vid strída.

8. Nær

8. Nær skal sú sálar girnd, sem ð fullkomlega, að alveilis út sé fyrnd, erin míns trega.

9. Að sál og líka líf, líta þenn nái, sem endar allt mitt kíf, eptir eg þrái.

10. Nú vill það hardla heitt, huga miñ beygja, eg á það eptir eitt, enn nú að deyja.

11. Uggur sá ángrar mig, eg hlýt að styggja, Drottinn! svo þráfaldt þig, þenna heim byggja.

12. Væri afstaðið stríð, stilltist sú hræðsla, fullkomin bættist blíð, barstkérans græðsla.

13. Jesú miñ! leggðú líð, láttú mig trúa, þér, heitt eg þess nú bið, þar frá ei snúa.

14. Holds-veikin þrýtur þá, þinn sætleik geymi, útfer vil feginn sá, frá þessum heimi.

15. Þín orð mitt lífga líf, líka þó deyi, þar við óbilugt blíf, bregðast þau eigi.

16. Því verdur helið hraust, þó dauðinn komi, luckast mér lofað traust, líka í Guðs dómi.

17. Eg veit að Jesús minn, upp kañ mig vekja, með holdi mín beinin, mun aptur þekja.

18. Með sama sjónar hvarm, sem hér nú væti, sje eg hann svipíur harm, í sigur-kjæti.

19. Af er þá ángistar, oll raun og mæda, hrekst eg ei hrumur þar, í hrernún klæda.

20. Mína

20 Mína eg fundið fæ, fagnaðar glaða, sem blómgað sumar-fræ, sætra lauf-blaða.

21. Djöfull og vólgar hans, dýrð þá ei fella, sem hér í sorgar-dans, sífellt mig hrella.

22. Því vil eg friðar-fús, frá hrigðar-djúpi, afleggja holdsins hús, svo hyljist hjúpi.

23. Lamb Guðs, sem líf mér fann, láttú mig vera, sáttann við sérhvern mann, samt þig, minn Herra!

24. Géf þú mér góða menn, greif mína taka, og meðan auða enn, yfir mér vaka.

25. Guð! lát mig engin orð, af munni leiða, sem búa sálu morð, sælu mig sneiða.

26. Yfir allt annað hitt, unn mér að hreppa hold og blóð helgast þitt, huggun ei sleppa,

27. Jesú Guðs sanni Son! send mér til handa, þá þarfstu heilla von, heilagann Anda.

28. Fyrir stríð strángast þitt, sterkasti Dróttinn! andlátið mjúkt géf mitt, mér sé bær sóttin.

29. Engann lát ótta' af mér, afgengnum standa, svæf þú mig sætt í þér, sjálfum til handa.

30. Meðtak þú mína önd, minn Jesú Kristi! í þinni heilla hend, hún sé og gisti.

31. Láttú, Guð! þeckann þinn þjón einhvern vera, foringja frómann minn, fagrann saung géra.

32. Sem lidid lik og grøf, ljúft sé ad blessa, og láti'á enga tøf, ord Guds ad messa.

33. Launa þú sjálfur svo, saung þann og lestur, Drottinn! um tíma tvo, trúr hirdir bestur.

34. Hér med þig blídann bid, brunnur alls góda! send þú þeim sífellt lid, sem þar til stoda.

35. Ødlist þeir eilíft gagn, audgist á foldu, sem bera sveita magn, ad sópa'á mig moldu

36. Sofnadur sídan þá, sæll mun uppreistur, erfidi øllu frá, af Gudi leystur.

37. Allt hvad minn gódi Gud, gaf mér í heimi, einn taki aptur vid, anníst og geymi.

38. Hann veri fadir fús, fødurleysíngja, miskun og matar-hús, minna veslínga.

39. Lýsi þeim lífs á braut, línkind á breidi, og svo úr allri þraut, um sídir leidi.

40. Ei læt þeim eptir mig, aud, gull né silfur, heldur, Gud! helzt bid þig, hjálpa þeim sjálfur.

41. O minn Gud! mín er þad, mjúk bæn og vonin, þann hópinn þér tak ad, þinn fyrir Soninn.

42. Eins medan erum vær, oll hér á lífi, þín blessud náð sé nær, við naudum hlífi.

43. Vort fátækt hafdu hús, í hendi þinni, Drottinn Gud fridar-fús, frjófga það inni.

44. Þín orð þá bestu björg, braud, hús og klædi, géfi þín gædskan mörg, Gud! þolinmædi.

45. Einn sértú, sanni Gud! sem með oss vendi, að sækja allann aud, í þitt haglendi.

46. Drottinn minn hárdla heitt, helzt þar um beidi, hætt svo ei saki neitt, sál hédan leidi.

47. Herra! mig helman bú, í hendur þínar, leid mig í lífsins trú, um lífstíð mína.

48. Ei láttú synda síð, sáurga mitt hjarta, svo megi sætt með frið, samvitskan skarta.

49. Hátt og djúpt heitum foss, hjartans útrenni, barn Guds, sem bar sinn kross, í brjósti'um mig kénni.

50. Mjeg hætt er marga stund, minn hrellist hugur, géf náð af gódri lund, Gud almáttugur!

51. Eg trúi á þig fast, almáttug Vera, þann skjöld fyri skeytið hvast, skal eg frambera.

52. Drottinn! eg þecki þig, þér því befala, eldúngis allann mig, án hjartans kala.

53. Særdú og grættú géd, Gud! sem þér lyndir, audmjúk bæn mín er med, minnst ei á syndir.

54. Eg á mig ecki hér, í verölduñi, Drottinn! eg eign þín er, af miskun þinni.

55. Því veit eg, sjerd þinn saud, sjálfs, þó hér arki, þinn þeckir allann aud, af eginn marki.

56. Ulfsins sedst ecki qverk, af sálu minni, þín hendin hardla sterk, hlífir hjerd sinni.

57. Hér beyg'eg hjartans kné, hjálpar sárbæni, rétt sem ein ambátt sé, upp til Guds mæni.

58. Yfirgéf ecki mig, í þinni brædi, géf fundid géti'eg þig, Gud! mitt hjálprædi.

59. Frá einni eiktar stund, allt fram til hiñar, bíd eg med ljúfri lund, lífs komu þiñar.

60. Gjerdú nú, Gud miñ! snart, ad gráti mínum, berdum reir bend ei hardt, blód-keypkum þínum.

61. Hofud mitt seka sé, sem kjeltu nódur, lagt í þitt líknar kné, Lausnarinn gódur!

62. Burt mér ei bljúgum hrind, bedúls'í hendur, fætur þín fadmi bind, Frelsarinn kénndur.

63. Ondin mín sýgur svo, sár Kiña rista, eins og brjóst-brunna tvo, barnid or-þyrsta.
64. Mér gengur mergjar til, miskun út-bregin, mitt ángur mýkja vil, mjøg hjartans feginn.
65. Þadan um eilíf ár, aldrei burtvenda; Drottinn! þinn heidur hár, haldist án enda.
66. Eja! þér, gódi Gud! gefgun sé fram-en, um eilífd ár og síd, Amen! já, Amen!

## Andláts Psálmur,

sem Skáldid qvad á sóttar-sænginni.

Lagid: Sá frjáls vid løgmál fæddur er.

Herra Jesú! eg hrópa á þig, hjartans því kraptar dvína, bænheyr þú Drottinn mildur mig, fyrir miskunsemina þína.
3. Bænheyr mig fyrir þín blódug sár og benja-sostinn rauda, bænheyr mig nádar Kóngur klár, og kénndu til minna nauda.
3. Bænheyr mig fyrir þinn trega og tár, og titrandi qvalanna pínu, bænheyr mig fyr-ir þitt sídu-sár, og svaladu hjarta mínu.
4. Ljúfur Jesú! eg leita þín, lát mér ad hvarfi verda, ángrád er nockud endin mín, ad vilja þrautir herda.

5. Láttú mig finna líkn hjá þér, ljúfust-um edla-bródur, húss-krossi litlum hægdu á mér; heyrdú þad, Gud minn gódur!

6. Þó vil eg bikar þenna af, med þack-látu hjarta drecka, súrt þó mér finnist súta-kaf, svaladu mínum ecka.

7. Herra! géf mér í hjartans géd, hei-laga þolinmædi; umburdarlyndi einninn med, og eilíf sálar-gædi.

8 Kjærleikans eld þú qveik í mér, kref eg þess Gud af hjarta, í andlegum hjúskap æ med þér, end mín svo nái' ad skarta.

9. Drottinn þú veitst minn þánka' og þel, og þerfina alla mína, þína í hönd eg þad allt fel, þyrstur í miskun þína.

10. Aldur minn þegar úti er, eymdum trúi' eg þá linni, fyrir blód þitt, Jesú! bjarga mér, á bana sænginni minni!

11. Hressi mig þá þitt blessad blód, beint svo ad trúar stafni, heim eg þá rétta hjálpar slód, haldi í Jesú nafni.

12. Bænheyr mig himnesk blídan væn, og blessadur edla-bródir, gleym þú ei minni gjördri bæn, gádu' hennar Jesú gódi.

13. Andláts þá stundu yfir mig slær, allt mál og megn vill dvína, heim til þín Fadir hjarta-kjær, hafdú sálina mína.

14. Hægann géf dauda og hédan-før, hvild þar med holdi mínu, í uppriſunni þau edla kjør, í augliti' ad gledjaſt þínu.

15. Láttú mitt hjarta ſegja med ſér, og ſvoddan trú í því ſtanda: Herra Jeſú miſkuna mér, medtak þú ſvo minn anda!

16. Falli ſvo til eg miſſi mál, minn fyrir afgángs tíma, í mitt hjarta ſinni og ſál ſvoddan ord vyrdſtu' ad líma.

17. Þá er eg hólpinn, þad er mín trú, þeſſa bón vyrdſt mér veita, andliti þínu ad mér ſnú, eins ſem eg þeſs nú leita.

18. Feginn vil eg, ſem fljótaſt nú, frelsaſt úr daudans ſkordum, augliti þínu ad mér ſnú, eins og til Péturs fordum.

19. Sæti Jeſú mig ſviptu pín, Pſálminn gjøri' eg ſvo enda, hrelldu ſvaladu hjarta mín, huggun vyrdſtú mér ſenda.

## Annar Andláts Pſálmur,

ſem Skáldid orkti ſídaſt á ſóttar-ſænginni.

Lagid: Skaparinn ſtjarna Herra hreinn.

Gud komi ſjálfur nú med nád, nú ſjái Gud mitt efni'og rád, nú er mér, Jeſú! þørf á þér, þér hefi'eg treyſt í heimi hér.

2. Eg hefi' aldrei í nockri naud, naudstaddur bedid utan Gud, Gud hefir sjálfur gégnt mér þá, Gud veri mér nú líka hjá!

3. Aqverdud mín og mælt er stund, mitt líf stendur í þinni hend, andlátid kémur eitt sinn ad, einn veitstú, Gud! nær skédur þad.

4 Nú hefi'eg þar á nockurn grun, nálægjast þessi stundin mun, holdid mitt er af harmi þreytt, hafa kraptarnir sér umbreytt.

5. Finn eg ad augum forlast sýn, falla tekur nú heyrnin mín, hendurnar hafa misst sitt magn, minn fótur vinnur eckert gagn.

6. Líkaminn allur særdur sótt, svitnar og dregur af mér þrótt, einnig þreyngist um andardrátt, eg vænti minnar hvíldar brádt.

7. Dofna varir og túngan treg, tala því ecki orka eg, hjartad svo margskyns mæda lýr, mannleg hjálp öll sér frá mér snýr.

8. Sárbeidi' eg Gud af gódri lund: géf þú mér hæga daudastund, ofbjóda lát ei andláts deyd, aumka þig yfir mína neyd!

9. Vitnisburd þann frá eilífd átt, ad þú hjálpir á bestan hátt, þá endast megn og mannleg stod, miskuna þú mér, Drottinn Gud!

10. Láttú nú sannast lidid þitt, líttú á qvein og andvarp mitt, eg sár-grátbæni Son Guds! þig, syndirnar skildú nú vid mig.

11. Utſlegid bid eg allt þad ſé, er eg þig Drottinn! módgade, óverdugum til góda gjer, Gud! ſem optar, og hjálpa mér.

12. Fyrſt þú hefir ſvo híngad til, haft ſtéra nád og kjærleiks il, í frammi vid mig fallinn mann, frelſadú mig nú naudſtaddañ.

13. Þú hefir fyrri fyrir mig ſtrídt, feng= id mér ſigur=merkid nýtt; Jeſú minn! nú þín frægdin fríd, fyrir mig vinni daud= ans ſtríd.

14. Géf þú mér eina trauſta trú, til þín minn hjartans Herra! nú, í gégnum daud= ans grimma hlid, Gud láti komaſt mig med frid.

15. Sæktú minn Gud! hvad ſjálfs þíns er, ſálina þá, ſem gaſſtú mér, ſkildu hana nú hægt vid hold, hvílaſt lát þad í jard= ar mold.

16. Hún verdur fegin hvíldar fund, haft hefir marga mædu ſtund, vosbúdar=nótt og nauda flug; nærſta bariſt med veikann dug.

17. En þad hún hefur afborid, er ſkéd fyrir hins hæſta lid, hann hefir ſinn hinn ſanna krapt, ſvo í þeim breiſka ríkann haft.

18. Opt hefir lúinn anda nært, erfidi hjartans ſtilling ſært, úrrædi er eg engin ſá, í ſínu ſkauti bar mig þá.

19. Legg þú mig nú á náðar-brjóst, nafnfrægi Guð! sem heitir ljóst, hjúkrun, aðstoð og hjálpar-lið, hjartanu géf nú sannann frið.

20. Af þreyngslum minnar móður lífs, mig leiddir þú án dauðans kífs, leys nú af þreyngslum líkamans, lifandi sál til himna ranns.

21. Strax, sem mín augna uppkom rós, eg féck að líta heimsins ljós, fyrr enn eg allur fæddur var, féckstú mér þá hið nægsta svar.

22. Svo láttú mína sálu nú, sjá þig í einni réttri trú, vertú sjálfur ljós-móðir mín, mín sál fædist í hendur þín.

23. Í skírninni mér skénktir þig, skal eg þér Jesú aptur mig, grandvarlega með góðri lund, géfa á minni dauða-stund.

24. Obeðinn tókst mig að þér fyrst, enn nú, sárbið eg, Jesú Krist! með trúar-hendi þér haldi' eg fast, Herra! lát mig ei vanmeguast!

25. Strax, sem mér leystist túnga og tonn, til mín barst lífsins fæða sönn, af öldum kálfi; sál mín saug, Sonar Guðs blóð, þá dýrstu laug.

26. Heilagur Andi hærstur þinn, hann er sá trygða-hríngurinn, sem Sonur Guðs

mér gaf á hend, giptast þá vildi' hann minni end.

27. Skínandi fot mér skenktir þá, ad skyldir mig í þeim aptur sjá, bædi á dægri dauda míns, Drottinn! og ríki Fødur þíns.

28. Eg kém hér framm med eckert mitt, elskhugi minn í brúdkaup þitt; sjá þú mig nú í sjálfum þér, saurugt er allt hvad med mér er.

29. Eg hef svo marga mædu stund, mænt eptir þínum dýrdar fund, stundú mig nú, þó liggi'eg lágt, lát mig ei ætíd ega bágt

30. Sje eg þig gégnum svart eitt ský, sitjandi himnaríki í, eg á nú til þín ecki lángt, en mér sinnst bædi hardt og strángt.

31. Eg styd mig nú vid ordid þitt, erfidi léttú, Drottinn! mitt, sálin mín er af þúnga þjád, þyrst og sár-húngrud eptir nád.

32. Deyf þú nú alla daudans raun, Drottinn! gjald mér ei verdug laun, eptir nád þiggi minnstú mín, minníngin lifir í mér þín.

33. Á nád legg eg mig Lausnarans, lífid mitt er í valdi hans, gædskan þín hefir grát minn stillt, Gud! far þú med mig sem þú vilt.

34. Honum einum eg hef mig geymt, hans nád hefir mér ecki gleymt; raungódur, sem mér siest nú hjá, sálu minni mest liggur á.

35. Lífsins pantinn mér lagdir þann, lifandi Anda heilagann, signetid það med saňri list, setur á hjartad Jesúm Krist.

36. En hvar Jesús í brjósti býr, býr þar hans nád og elskan dýr, synda qvittan og miskun manns, mitt líf það er í valdi hans.

37. Eg treysti Gudi uppá öll, ord hans og held þau miň grundvöll, jerd og himnar forgángá greidt, en Guds ord skeikar ecki neitt.

38. Eg vil í Drottni sofna sætt, samvitsku stridid allt er bætt, dauda-haldi eg Drottinn þrís, dýrstur géf þú mér eilíst líf.

39. Qved eg í Gudi gódann lýd, gledilegar þeim nætur býd, þackandi öllum þeirra styrk, þjónustu, hjálp og kjærleiks verk.

40. Astkjæra þá eg eptir skil, afhenda sjálfum Gudi vil; andvarpid sjer hann sárt og heitt, segja þarf honum ecki neitt.

41. Unni hann ydur kjærleiks koss, qvitt á hann einn ad skilja oss, géf þú þad, Jesú Kristi kjær! kátir hjá þér ad finnumst vær.

42. Hlýdni alla og þolid þýdt, þad veiti Gud mér hardla blídt, géfi mig qvittaň Gud og menn, grátbæni' eg þess af hjarta enn.

43. Lúinn anda eg legg nú af, lífinu rádi sá, sem gaf, í sárum Jesú mig sætt innvef, sálu mína eg Gudi géf.

44. Láttú mig, Drottinn! lofa þig, med lofi þínu hvíla mig, ljósid í þínu ljósi sjá, lofa þig strax, sem vakna má.

45. Láttú mig færa fram þau hljód, fyrst og seinast, minn Drottinn Gud! ad lofa þig í heidri hár, haldist þín dýrd um eilíf ár!

## Um sælu Himnaríkis.

Lagid: Mikilli farsæld mætir sá.

Upp, upp mín sál! og fordumst fús, fridarins borg ad ná, þar ununarsamleg eru hús, æskileg Gudi hjá, þar sáluhjálp án enda er, án dauda líf eilíft, án hrigdar gledin aldrei þver, ángri þar verdur svipt, án mirkra ljósid aldrei dvín, eilífur gledidagur skín, veikleiki, ótti, výl né þrá, verdur ei nockur þar, harmurinn enginn mæda má, mein eckert snertir par, gési' oss ad odlast gledi þá, Gud Drottinn allsherjar.

2. Madur enginn hér mæla slíkt, meta né skynja kann, hvad fagnadar-líf er farsælligt, fridum í himna-rann; Herrann vor Kristur sú er sól, sem ad oss forklárar, ljómum þar fyrir lambsins stól, líka sem stjo.nurnar; augnanna sífelldt er þar lyst, álita Herrann Jesúm Krist, eyrun vor

heyra ætíd fá, ylmandi raddirnar, sætur hljódfæra-saungur sá, síselldlega hljómar, gladir æ sýngjum gesgun há, Gudi til eilífdar.

3. Þar er prísud í þeirri borg, þrenníngin guddóms há, hennar um gjörvöll heyrist torg, hljód-fegur Musicá; þar er án elli æskan hrein, án veiki heilsan klár, þar snertir ei hid minnsta mein, mann neinn um eilíf ár, allri Drottins med Engla hird, útvaldir búa í þeirri dýrd, hverrar gledinnar yndid er, augliti Guds ad sjá, ódaudlegleika íklædder, og eilífri birtu há, kórónur þeirra hefir hverr, hosdum gullegar á.

4. O! hvad farsæl ad er sú tíd, þá erum komnir þar, og eptir lidna heimsins hríd, heitum Guds borgarar, frá allri mædu eymd og þrá, erum þá loksins frí, heidur, dýrd, gledi hljómar þá, himneskum landi í; æ hvad fagnadar vegsemd vor, vera mun háleitlega stór, þá Endurlausnarinn afhendir, ástkjærum Fødur oss; fadminn á móti blídt breidir, býdur stramm ástar-koss, brigd og mæda þá horfin er, hörmúng og tára-foss.

5. Heilagann selskap hefum þar, himneskum Gudi med, forfedur, Spámenn full-

gløggt vær, fáum þar alla sjed, æskileguſtu umgengni, einnig þeim hofum hjá; sífellda elsku'og samþycki, sýna hverr ødrum má, áſamt ókénndum ellum gløggt, áſtmenn vora vér fáum þeckt, frændur og vinir finnaſt þá, fagnadi medur þar, blómleg og svo med blídu sjá, bornin sín foreldrar, fagnadar verdur fundur sá, fremur enn mann ſkynjar.

6. Þeſsi ad edlaſt gædin góð, géf þú mér, Drottinn minn! fyrir þíns Sonar bleſſad blód, bænheyrdú þrælinn þinn; þegar heiminum frá eg fer, frels mig af andar pín, ſkrýd mína sál'í himna her, Herra! med blódi þín, ad eg útveldum ellum med, eilífar þackir fái téd, andlit þitt blída unn þú mér, alvaldur Gud! ad sjá, einnig ad búa um alder, eilífar sjálfum hjá; svo eg án enda syngi þér, Sanctus og Gloriá.



# Þridji Parturinn
innihelldur
# Hmislega Qvedlinga
til
Gudræknis ydkunar og sidbóta.

## Fyrsti Flockur
i hverjum finnast
nockrir andríkir og gudrækilegir
## Qvedlíngar.

### Sumar-vísa,
qvedin árid 1657.

Lagid: Losid Gud, losid hann hverr.

Vetrar tíd, víst er umlidin nú, farsæl, blíd, blessunarfull var sú; Drottinn veitti lýdum lid, um ládid og grædi, heilsu, frelsi, fædu, frid, flest nádar gædi; menn og hjørd máttu ei neina, af lopti og jerd, landplágu reyna; hackarhjerd, því skulum greina,

ástar lystilegum hug: lofadur hafi géfid ofs Gud, gáfurnar sínar! lofadur hafi géfid ofs Gud, gáfurnar sínar!

2. Vedur mjúk, von manna framar þó, engin fjúk, allsjaldan frost eda snjó, reyndi kindin raunar nein, rétt má svo inna, hverki horku mun né mein, máttum því finna, þarfleg nægd, því var á fódri, skjól og hægd, skepnunni módri, þessa vægd, þeckum vér gódri, miskun ferskri Drottins dátt, hafi nú lof og heidur Gud, á himni og jordu, hafi nú lof og heidur Gud, á himni og jordu.

3. Sjónum af, abla og fiski-plóg, Herrann gaf, hverjum, svo dugdi nóg, vodinn brádur vinds og unns, vard engum skjædur, stýrdi ferd til sands og sunds, sá ollu rædur; um vora sveit, sóttin allsærsta, þad eg veit, þjád hefir nærsta, mjúk og heit, miskunin stærsta, Drottins, veitti ofs værd og værd; helgum, prísum, heidrum Gud, med hjarta og sálu, helgum, prísum, heidrum Gud, med hjarta og sálu.

4. Hverr sær tjád, talid og reiknad greidt, svoddan nád, sem ofs féck Drottinn veitt, stundleg, andleg gædin gód, gáfurnar flestar, af Fodur blídum þádi þjód, þær

allra bestar; kynníng hans, klárt ordid sanna, fridinn lands, farsældir manna, andskotans, ákéfd réd banna, engin þvíngan lúdi lýd; lofadur sé vor ljúfi Gud, fyrir lánid sitt góda! lofadur sé vor ljúfi Gud, fyrir lánid sitt góda!

## Mismunur Veturs og Sumars.

Lagid: O Jesú! etia blómi.

Kominn er veturinn kaldi, kastar ad margri hríd, af Drottins vísdóms valdi, veslast sú ársins tíd; sæl geymir sól ljóma, svelþrumir kul-hami, jel-romum fjøl-sima, fyrna ernin stríd.

2. Grund frýs, en grasid dofnar, grípina vantar skjól, bersnøggir standa stofnar, styrdnar lim, skóginn kól; smár fuglinu þreyr þegli, þver hygli, dýr ragla, ber segl frá byr-trýglum, blandid vinda-hjól.

3. Skorp frostin skémta eigi, sképnan hver ber sig lítt, snjór hylur vída vegi, villist því margur tídt; klædlausir fred-frusu, frid-hreisi naud kjósa; ad húsum féd flasar, fæliſt kulid strídt.

4. En þegar vorar aptur, uppgengur sólin skjær, ellu nýr eblist kraptur, annad

bragð loptið fær; kold hýrnar fold forna, fylld kjarna mold styrdnuð, sýld meyrna sjaldornuð, svellin fjellum nær.

5. Fuglar úr fylsnum hreifast, féð drífur húsum frá, dýrin um skóga dreifast, dag saman fjelga þá; menn hýrast, en ærin enn heyríst, grannfærum, hlunn-jórum, hrönn báru, hrindir sundið á.

6. Deggina drífa lætur, Drottinn á kaldann snjó, verkar svo mildi-mætur, moldin þurr verdur frjó; glis skógar, gros haga, glas-fegur rós þæga, rís, þegar rásdrjúga, raka þokan bjó.

7. Frostið þó fargi gróda, frjófgast samt uppá ný, frækornsins sjá menn sjóda, sín geyma blómstrin frí; krapt fróni ljúft lénar, lopt skinið drift hreina, gæft duna, svipt sjónum, sjetnuð vatna ský.

8. Sumarsins blóminn sæli, sýnir oss Drottins mátt, vetur þó kaldur kjæli, korn, jörð, gras, fræið smátt; árstídin úr sædi, er gædi hýe leidir; frjór lýður fær Gudi, frídann heidur þrátt.

## Ungmenna Morgun-bæn.

J Þínu nafni uppvaknadur,
Er eg, Jesú Gud og madur!

Lof sé þér fyrir líf og gædi,
Líkamans heilsu føt og fædi,
Og allt þad þín óþreytt mildi,
Aumum mér til-leggja vildi;
Bid eg þig, minn blídi Herra!
Blessun þína ei lát þverra,
Hegdun minni á hverjum degi,
Haldtú' á sönnum dygda vegi,
Lát mig njóta úngdóms ára,
Er þú barst í manndóm klára;
Géf uppfrædi æsku mína,
Audi þinn fyrir verkun sína,
Svo 'í ótta og elsku þinni,
Avøxt gódann færa kynni.
Hlýdni, trygd og trúna bjarta,
Tendra og nær í mínu hjarta,
Ad mér svo med aldri hrennum,
Aukist nád hjá Gudi og mønnum.
Heims og Satans hrekkja snørum,
Hrind frá mér, svo ei ór[illegible]um,
Mig ógjætinn í sér festi,
Edur dragi' í synd og løsti.
Vernda mig frá voda øllum,
Vondum dauda og slísa-føllum;
Englar þínir ad mér gæti,
Engum svo eg meidslum mæti.
Mitt verklag og miskun þína,

Mér lát vera unun mína;
Auk mér skilníng orða þinna,
Eru þau lampi fóta minna.
Géf mér jafnan gott að læra,
Góðlyndum við alla vera,
Varfærum í velgengninni,
Vongóðum þó raunir finni.
Ljúfi Jesú! með lífi og endu,
Legg eg mig í þínar hendur;
Þar vil eg fús að lyktum lenda,
Lofaður sértú utan enda!

## Ungmenna Qvøld-bæn.

Nú vil eg enn í nafni þínu,
Náðugi Guð! sem léttir pínu,
Mér að minni hvílu halla,
Og heiðra þig fyrir gæðsku alla,
Þáða' af þér á þessum degi,
Því er skyldt eg gleymi eigi;
En það má eg aumur játa,
Angri vafinn sýta og gráta:
Móðgað hef eg margfaldlega
Mildi þína guðdómlega.
Ursléttt mínar syndir svartar,
Sundurkramið lækna hjarta,
Afþvegið í ævsta flóði,

Endurlausnarans Jesú blódi,
Svo eg qvittur sofi' í fridi,
Sál og líf af Engla lidi
Umkríngd, Satans íllsku hrecki,
Ogn og slægdir finni ecki.
Blessa hús og hvílu mína,
Hjástod lát mig merkja þína,
Þá mun adsókn íllra anda,
Ei hid minnsta kunna' ad granda.
Lát mig þenkja' á þessu qvoldi
Þad: eg lisi' í veiku holdi;
Brothætt gler og bólan þunna,
Brotna snart og hjadna kunna.
Þú, einn Gud! skalt þar um ráda,
Þínar knỷ eg á dyr nádar,
Af míns hjartans innsta grunni,
Andvarpa og bid med munni:
Þegar eg skal seinast sofna,
Sál vidskilur, fjør mitt dofnar,
Hjartans Fadir! í hendur þínar,
Hverfa lát þá ondu mína;
Hold í jordu hægt lát blunda,
Helgra þar svo bídi funda,
Og upprisinn ad eg víki,
Inn med þér í himnaríki.
Þar mun eg þúsund þackir fara.
Þér sé lofsgjord, prís og æra!

## Hugbót,

**þá húsin brunnu í Saurbæ 1662.**

Lagið: O Faðir minn! eg þrælinn þinn.

Guð er minn Guð, þó geysi nauð, og gángi þanninn ysir, syrgja skal spart, þó missta' eg margt, máttugur Herrann lifir; af hjarta nú, og hreinnri trú, til hans skal ez mér venda; nafn Drottins sætt, fær bölið bætt, blessað sé það án enda.

2. Gaf mér hans náð, gott lucku ráð, að gledinnar eblðist kraptur, frjálst á hann þá, og fullvel má, frá mér taka það aptur, hans hjálpin blíð, á hverri tíð, huggun vyrðist mér senda; nafn Drottins sætt, fær bölið bætt, blessað sé það án enda.

3. Tók ei djöfull, né tesra-full tilviljun burt eign mína; só, sem það gaf, svipti þvk af, sorgin skal ell því dvína, mitt bætir ráð, með mildi og náð, hans miskun þúsund-kénnda; nafn Drottins sætt, fær bölið bætt, blessað sé það án enda.

4. Guð elskar þann, sem hirtir hann, hefi' eg þá trúna vissa, vil eg með hind, vesæl barnkind, á vönd Föðursins kyssa, heilsu, lán, féð og heiður með, hans náð

vil-

vil eg afhenda; nafn Drottins sætt fær bolid bætt, blessad sé þad án enda.

5. Af mér þó féd og audlegd med, ódum svo gánga megi, grátbæni'eg nú, gódi Jesú! gleymdú mér þó aldreji! lát mig hjá þér, þá hédan fer, í himna sælu lenda; nafn Drottins sætt fær bolid bætt, blessad sé þad án enda.

## Ydrunar-vísur.

Med sínu lagi.

Gud á himnum hjálpi mér, og huggi sálu mína, særdann huga sorgin sker, syndir hjartad pína, þúngan qvída brjóstid ber, berst vid þánka sína, mædist hold en lengist líf, lángvesælt er harma kíf, ei vill ángur dvína.

2. Laungum gjøra mér lángsamt géd, lidnar æfi-tídir, heldur seint eg hefi þad sjed, hefndum sálin qvídir, daudans ógn og ótti med, opt á holdid strídir, hugraun sú er hardla sár, himna Fadirinn dýrdar klár, bæti bolid um sídir.

3. Gétinn var eg í sekt og synd, svo mig módirin fæddi, eptir fornri Adams mind, eins og Davíd rædi; því er sálin sjúk og

blind, forgin hjartad mæddi, holds náttúr-an heimsk og villt, herfilega med ellu spillt, í vondsku áfram æddi.

4. Snemma hefir bernskan blekt, barn-dóms hug og sinni, ádur fyrri'enn féck þad þeckt, frá því skíra kynni, ad styggja Gud en safna sekt sálu'ad glata minni, var hid fyrsta verkid mitt; voldugt, Jesú! nafnid þitt, bót á bolinu vinni.

5. Lengi hefir þó leitast vid, líknar Fad-irinn mildi, ad leida mig frá lasta sid, svo lífid ødlast skyldi, med þolinmædi'og blídri bid, bjarga mér hann vildi; en eg sló því ollu'í vind, elskan holds og dárleg synd, heimsku hjartad fyllti.

6. Illa hefir mig holdid ginnt, og heims-ins lystin bráda; Satan sló mér svika-mynt, sjest nú fátt til ráda, því er hjartad bleckt og blindt, þad bid eg Gud ad náda; þreyst eg vid þann hrigdar hag, harmar bædi nótt og dag, sálin þrautum þjáda.

7. Gud minn hefi'eg raunar reitt, til reidi'og heiptar brædi, hans milda nád og þolgéd þreytt, med þrjótsku'og synda ædi, grimma'yfir mig glotun leidt, gamall og úng-ur bædi, samvitskan því særd er mín, sæti Jesú! gædskan þín, hana huggi'og grædi.

8. Um sídir þó eg setji mér, synda girnd ad deyda, holds náttúran þrjótsk og þver, þángad vill mig leida, sem tídast ádur tamdi' hún sér, á topunar veginn breida; viljinn ecki fær sig frí, fjotrum daudans vefst eg í, sárlega mig þó meida.

9. Hverki ber eg til hug né dád, hjálp mér sjálfum veita, einkis nýt eru øll mín rád, þó ætti'eg þeirra'ad neyta; Jesús minn hefir nóga nád, nú vil eg þángad leita, hann mun aumur á mér sjá, eflaust fæ eg huggun þá, sem bølinu kann ad breyta.

10. Þó stærri vyrdist misgjørd mín, enn má eg sjálfur greina, mér er, Jesú! miskun þín, mildust, gædsku hreina, hjá þér aldrei hjálpin dvín, helzt mún eg þá reyna, hér vid hressist hjartad mitt, heilagasta blódid þitt, lækníng minna meina.

11. Þó gengid hafi'eg ranga stig, gálaus mørgu sinni, elskad hold eu hatad þig, af heimsku'og ofdyrfd minni, gódi Jesú! minnst' á mig, í miskunsemi þinni; særd og lemstrud sálin er, syndu vægd og linkind mér, svo hjartad huggun finni.

12. Mig hefir djøfull sárum sært, og svik- id af lífsins vegi, kránka sál úr klædum fært,

þún kann sér bjarga eigi, øllum krapti tapad og tært, tjón þad mest eg segi; o þú sæti Samaritan! sjádu' aumur á þeirri smán, svo eg ei útaf deyi.

13. Gótzi því eg þrádi þrátt, af þinni gædsku hendi, íllsku girndin eyddi brádt, aptur drasid sendi, hefi' eg lengi húngra mátt; heim nú loksins vendi, taktú vid mér útlegd úr, eins og fadirinn hjarta-trúr, í brjósti'um barn sitt kénndi.

14. Lækna fyri þinn dýrann deyd, Drottinn! sálu mína; sárleg synda fjeturin greid, svo finni'eg huggun þína, villtann saud á veginn leid, varginn lát ei pína, opna hug og hjartad mitt, svo heilagt nádar ljósid þitt, skjært megi þar skína.

15. Hjá Fødur þínum legg mér lid, Lausnarinn Jesú gódi! svo eg finni sátt og frid, sviptur þúngum módi, audmjúklega' eg um þad bid, af ást og tára-flódi, segdú: eg sé ordinn einn, af øllum syndum klár og hreinn, þveginn í þínu blódi.

16. Framdar syndir forlát mér, Fadirinn dýrdar sæli! fyrir dýrstann Jesú dreira hér, af døprum húg' eg mæli: kastadú ei frá augum þér, ómaklegum þræli! eblдú líf

lif med ást og dád, svo aldrei mig frá Þinni nád, freistíng nockur fæli.

17. A fyrirheitin heilög þín, af hjartans grunni' eg treysti, frá djøfli, synd og sárri pín, Son Þinn kjær mig leysti, med beiskri qvøl og blódi sín, barn sitt fallid reisti, Herra Gud! mér hjálpa þú, svo haldist eg vid rétta trú, þó frekt mín Satan freisti.

18. Heilags Anda hjálpin þýd, hug og sinni geymi, svo aldrei hédanaf íllsku stríd, yfir mig syndin sveymi, þá dapur nálgast daudans tíd, Drottinn sálu' geymi; veiti mér þín líknin lid, leid í eilífann dýrdar frid, hédan úr þessum heimi.

19. Allar sképnur alla tíd, af øllum hug' og rómi, sýngi þér lof, sem verøld er víd, voldugur Drottinn frómi, Jesú Kristi þockin þýd, þar med føgur hljómi, heilögum Anda'á himni'og lád, fyri huggun, styrk og líknar rád, aukist æra'og sómi!

## Vísa drótt-qvedin.

Hverr grædir hjartans qvída?
Hverr kjætti menn grætta?
Hverr sétt hindrar hætta?

Hverr snaudann vann dauda?
Jesús huggar, hrigd lógar.
Hann græddi sorgmædda,
Hann lísi heilsu gésur.
Hann snaudann vann dauda.



# Annar Flockur
innihelldur
## Heilrædi og Uppvakningar
til
kristilegs framferdis,
sýnir einnig hversu fallvalt og litilsverdt sé
Heimsins ágæti og ysirlæti.

### Heilrædi.

Ungum er þad allra best, ad óttast Gud sinn Herra, þeim mun vitskan veitast mest, og vyrdíng ecki þverra.

2. Hafdú hverki hád né spott, hugsa' um rædu mína, elska Gud og gjørdú gott, geym vel æru þína.

3. Foreldrum þinum þéna'af dygd, þad má gæfu veita, varast þeim ad veita styggd, viljir þú gott barn heita.

4. Hugsa um þad helzt og fremst, sem heidurinn má næra, aldrei sá til æru kémst, sem eckert gott vill læra.

5. Lærdur er í lyndi gladur, lof ber hann hjá þjódum, hinn er ei nema hálfur madur, sem hafnar sidunn gódum.

6. Opt er sá í ordum nýtur, sem ydkar mentun kjæra; en Þussinn heimskur þegja hlýtur, sem þrjótskast vid ad læra.

7. Vertú dyggur, trúr og tryggur, túngu geymdu þína, vid engann styggur, né í ordum hriggur; athuga rædu mína.

8. Lítillátur, ljúfur, kátur, leik þér ek úr máta; varastú'spjátur, hædni, hlátur, heimskir menn svo láta.

9. Víst ávalt þeim vana haldt, vinna, lesa, ydja; umfram allt þú ætíd skalt, elska Gud og bidja.

## Vísur um Lúthers Frædi.

Klár Lútherí Frædin fródir,
Finna kunna menn hér sett á íslenzkt mál,
Lesid, prísid lýdir gódir,

Lærid, heyrid, gjørid rétt og sedjid sál';
Ljúfra gjafa njótid, neytid,
Nádar tídir kannist vid,
Drottins lítillátir leitid,
Lotníng veitid,
Bidjid Gud um gódann frid.

2. Bædi medur munni og penna,
Mest á sídsta aldar koldum tíma'og stad,
Menn vel svinnir kunna ad kénna,
Koma heimi skyldug gjøld, ef forsmá'r þad;
Ordid dýrdar dádum prýdum,
Dyggar leggjum þackir mót,
Þeim, er sóma sædum frídum,
Sádu tídum,
Sprettur gett af gódri rót.

## Kristins manns athæfi.

Sérhvad hefir sína tíd, svo er ad hlæa og gráta, hóf er best ad hafa' á øllum máta

Finn eg þad í frædi hreinu, fródir menn sem toludu' um, ecki skédur allt í einu, ýmsum skiptir tímunum, á stødugu' ecki stendur neinu, stundleg sorg og luckan blíd. Sérhvad hefir sína tíd. Eins fyrir mann' og menja reinu, margt kann á ad

bjáta. Hóf er best ad hafa á öllum máta.

2. Þess áttú med greind ad gæta, gángi þér vel med settann hag, þú kannt ødru mátské mæta, á morgun, heldur enn var í dag, tvennt hefir til ad gledja' og græta, guddóms maktar hendinn hýd. S. h. s. t. Tjáir engum þess ad þræta, þad er andrádin gáta. H. e. b. a. h á. ó m.

3. Tregast eí þá erfidt veitir, einhvern tíma sorgin dvín, svo náttúran sjálf því breytir, sólin eptir regnid skín, Gud þeim øllum huggun heitir, hér sem lída forløg stríd. S. h. s. t. Til ørvæntíngar þig ei þreytir, þó þú megir gráta. H. e. b. a. h. á. ó. m.

4. Vertú hógvær þá vel þér gengur, svo veraldin þig blecki sízt, á augabragdi allt forgengur, audnu lán, þá hjólid snýst, velgengninnar steckur strengur, stundum minnst þá varir lýd. S. h. s. t. Hindra jafnan horskur drengur, holdid sig ad státa. H. e. b. a. h. á ø. m.

5. Gudi' er best ad trúa, treysta og taka því vel ad hendum ber, vér skulum ecki frekt á freista, ad fylgja því, sem holdid lér, gudhrædslunnar nærir neista, nádin

Drottins gædsku þýd. Sérhvad hefir
sína tíd. Sá ofs hefir af løstum leysta,
hann leidi hriggva og káta. Hóf er best
ad hafa á øllum máta.

### V a r h y g d.

Audtrúa þú aldrei sért,
Aldrei tala um hug þinn þvert;
Pad má kalla hyggins hátt,
Ad heyra margt, en skrafa fátt.
Tak þitt æ í tíma ráð,
Tókst, þó ei sé lundin bráð;
Vin þinn skaltú velja þér,
Sem vitur og þar med tryggur er.

### O f og v a n.

Eitt er vid af i hætt, ef augun líta gullbaug,
Ef hendin og hugarlund, horfa uppá sitt vald.
Hittist varla h ó f rétt, þá hlaupid er í gum-kaup,
Géldur þess galid hald, ad glisi verdur opt slis.
2. Hitt er v a n opt hætt, ad una ei vid lítinn mun,
Egna til sín ógagn, og eyr gulli vyrda meir;

Slíſinn þykir lánlaus, þá lídur hann ſitt egid ſkríd;
Ríkum opt í raun rak, raktarleyſid ſátakt.

## Gott og Illt.

Gott er ad geyma ſitt, og géta prófad rétt hóf, vera ör og vel ſpar, og veita engum rángsleit, dælt þykir egid allt, ondvegis í ſjálfs hond, djarfur hver af ſkiptum ſkérf, ſkjóta finnur hugbót.

2. Illt er ad ſjá ſult, á ſínum, þá braud dvín, letin víſt ef út át, ádur géfid forrád, líka þykir ljótt ok, ad láta út fyrir dryckju-ſtát, endilega er leid lund, þá lángar eim á húſsgáng.

3. Gott er ad greina ſatt, og géfa þjádum heil rád, ſkamta nidur ſkémt þad, er ſkédur ecki ſpott med, holluſtu hend full, hærſtri gengur dygd nærſt, unna þeim ſem á mann, eina príſa eg þá grein.

4. Illt er á óheilt, ad eggja þann, eg rádlegg, laſtanna er lygd verſt, þó lýdir vyrdi gaman-ſmíd: kjæſir gledi kránkt líf, kaſtar heillum bak-laſt. Dreifſid med ſér dregur hlaſs, af dygdalauſri ótrygd.

5. Gott er að geyma sátt, í Guði hafa fegnuð, þola bædi og þreja vel, þeckja sinn eginn fleck, heilsa og bond frjáls, heitir besta það eg veit, litillætt lund kát, lika er baldinn dygð rík.

6. Illt er hatur óstillt, óttaleg mun hugar sótt, þúngt eg held að þola rángt, þjóning gjörir forsmán; vonda kalla eg vél synd, vanm kémur spott framm, pláge mun og písl nóg, að pínast fyrir verk sín.

## Tvø Vers*).

Lagið: Oldúngar Júda annars dags.

Guð nádi nú hvað gengur tregt, geysar rángletið heldur frekt, á veltu hjóli heimurinn er, hnignandi fer, til falls með ollu flýtir sér.

2. Øll manna hugsan, hjarta og géð, hnigur til þess að girnast féð, ýmisleg hegðan erg og ljót, en ei finnst bót, hefnd mun því koma hörð á mót.

*) Fyrra versið finnst í einu Exemplari það 29da, en hið síðara það 34da í Psálminum: Géf eg mig allann á Guðs míns náð; en onnur sex Exempl. útiláta það.

## Vísa.

Fyrnist heimur, sáheyrt skédur,
Frelsarinn Jesús geymi' oss vel!
Hans híngadkoma Guds børn gledur,
Þó græti þar til sorgar-el,
En þá verda' úti oll ódedur,
J hendur Guds eg kristna fel.

## Hexametrum.

Holdid ofkátt veit fyrirfram fátt hvad
falla mun þægra,
Reidir sig þrátt á megn sitt og mátt eda
mannordid frægra;
Ostýrilátt, þad ætlar sér hátt ad endíngu
dægra;
Sá er vid gátt, þó sjáist ei brádt, sem
setur þad lægra.

## Hexametrum.

Old ódum spillist, uggleysinu dárlega fyllist,
Glæpa vegur gyllist, girnd holdsins marg-
ur adhyllist.

## Um misjafnt hamíngju lán.

Lagid: Opt vindar eik. Bjá.

Barna lund blind fædd, vid brjóstin móður kúra, æsku-stund ómædd, fyrir enga kann ad stúra; en þad mund algædd, er mannsins náttúra, skammt mun til skúra.

2. Einn ef kémst hér hátt, og hyggur sér til kjæti, á þá skémst addrátt, eitthvad þad menn græti, hjartad kremst, hvarf brádt, helzt er þókti mæti, allt eptirlæti.

3. Glíann reis grá hardt, gnap þá stormur hrylltí, eldu geys grimmt margt, glæstum reida spillti, þessi eys, en snart, unnur rúmid fyllti, og bátnum bilti.

4. Skér, ad ljær, skín sól, skírt ad morgun kosti, um adra grær, eikt ból, yrju daggar rosti, sídan slær, heims hjól, hvestur gustar kosti, med feikna frosti.

5. Því er allt í heim', ef svo mætti greina, nærstu valt, þad heim, þykir víst, er reyna, á blídum hallt hálft tveim, hjólid lucku teina, ser braut ei beina.

### Veraldar Fláttskapur.

Sama lag.

Svo sem gler, sýnist mér, sælan hál, veraldar, hvikul hér, hvad lítst þér? hvítt ad

ofan faldar, undir ber, ef þú sjer, íllska brúnir kaldar, og táli tjaldar.

2. Margann hátt, hún þrátt, hóf í yfirkreti, luckan kátt, lét dátt, litla stund með kjæti, stóð við gátt, fljóð flátt, felldi þann úr sæti. frá mestu mæti.

3. Alits frí, fræg blíð, fyrst hún morgunnr reyndist, heimskum lýð, hæg þýð, hitt þó undir meinist, slúngin strið, slæg-smíð, slóttug rétt svo greinist, brádt burtu leynist.

4. Luckan hál, heims prjál, hold og blóðið káta, flædar-bál, frekt brjál, framm úr réttum máta; það er tál, svíkur sál, um síðir kann að láta, sárt suma gráta.

5. Við leigu-ból, láns-stól, líkist heimsins sæla, ókyrrt hjól, ragl, ról, reykjar dups og svæla, glíslegt hól, gabb-tól, ginnir Mammons þræla: hverr má því hæla?

6. Daudleg mind, mannkind, moldar leirinn veikur, beina-grind, bláfin vind, bóla vatns og reykur, hladin synd, lausliynd, sem logi strá-þurr qveikur á þræðs lif leikur.

7. Holdið hjart, ber skart, bæði gull og klæði, en þú vart, óþarft, ádur rotið sæði, verdur snart, veik art, vesælt madka fæði sem öll endar gæði.

8. Volsid hér, valt er, ef viltu rétt ad grunda, lísid þver, skjótt fer, fræktin ell tik hunda, kistu hrer, kropp ber, kaldan út med skunda, opt innan stundar.

9. Illum sid sjá vid, sannra leita dáda; högvært lid fær frid, sem flýr til Drottins náda, stunda grid, Gud bid, ad geyma sálu þjáda; gjæt gódra ráda.

## Heims ósómi.

Sama lag.

Hverfa happs tímar, hofud sundlar qvikla, glossa gnaps brímar, gét eg sjónir villa, svipan straffs stímar, stjarnan spá mun fylla, og athæfid illa.

2. O! ad tár ákef, af augum jafnan rinni, eda nár í gröf, indi ad hvílu sinni, synda sár upphef, sálu ógna minni, ef kannast vid kynni.

3. Agirnd grá æddi, yfir fjellin háu, ótrú slá flæddi, á fróns hálsana smáu, þrjótskan þrá þrædi, þad nær blindir sáu, þar lægdir lágu.

4. Vitsku vakt sofnar, veraldar bjallan klingir, drottna makt dofnar, dala kluckan

hríngir, stóra prakt stofnar, sá stimpla málmian pýngir, því margt ad þýngir.

5. Ord Herrans aktast, í allt of litlu gyldi; hverúd manns maktast, meir enn vera skyldi, synda sans fraktast, frón og hérud fylldi, tráts-viljinn trylldi.

6. Von er því, von er, verdi Gud ad hefna, hætta ný nú hér, nærri vill oss stefna, frá eg sný, skær ser, framar meir ad nefna, rek rauna efna.

## Veröldinni tildruckid.

Vond ertú, veröld! med véla-brögdin margföld, þeir fá sjálfan gód gjöld, sem géfa sig á þín höld; þú ristir einum spott-spjöld, og spéar hann uppí hávold; múta, slærd og mein-köld, markad er á þinn skjöld.

2 Þeim, sem þú ert bráð blíd, býr þar undir hel-stríd, hvergi muntú heil-smíd, þó haldin værir dáfríd; vondsku þinnar vex hríd, vestnandi fer ætíd, svá þitt varast sárt níd, sælann tel eg þann lýd.

## Hversu fánýt sé fordildin.

Hólnar fold, fyrnist allt og mædist, hold er mold, hverju sem þad klædist.

Sú er raun þad sannast víða, svikul og völt er heimsins blíða, í spakmálum lærdra lýða, lengi þar um rædist. Hold er mold, hverju sem þad klædist.

2. Hugsa' eg opt í hyggju brunni, af hverju menn sig stæra kunni, þó er þad næsta' í náttúrunni, ad nakinn sérhverr fædist. H. e. m. h. s. þ. k.

3. Fordild öll hún 'flýr úr huga, þá feigdin mann vill yfirbuga, lítid stadar dockn duga, þá daudinn inn ad lædist. H. e. m. h. s. þ. k.

4. Hvad gyldir þó ríkur rambi, regist við og standi' á þambi, engin er svo dygur í drambi, ad daudinn nockurn hrædist. H. e. m. h. s. þ. k.

5. Þó á þér skíni' útlendsk draktin, yfirlætis og vitskur praktin; trú þú mér ad minkar maktin, af modkunum þá snædist. H. e. m. h. s. þ. k.

6. Adur enn (kannské) úti' er nóttin, af þeim tekur ad draga þróttinn, kémur þá bædi qveisa' og sóttin, qvillinn sár ei grædist. H. e. m. h. s. þ. k.

7. Þó stundum gángi þeir stockum búnir, á stígvélum séu sporar snúnir, út vid

grafar backans brúnir, beín leid ollum þrædíſt. H. e. m. h. ſ. þ. k.

8. Silfur-por og dýrir dúkar, danſkur kjóll og treyur mjúkar, ad ſálunni lítid ſeinna hjúkar, þá ſorgar-hitinn grædíſt. H. e. m. h. ſ. þ. k.

9. Þó hygginn ſért og hæg-lundadur, hafdú rád mín, kriſtinn madur! hér er ſvo valtur heimſins ſtadur, hinn fær gott er mædíſt. Hold er mold, hverju, ſem þad klædíſt.

## Um ágirnd og aðra ſafir.

Mig ángrar margt hvad manns athæfid, hvernig heimi'er háttad, heſ'eg vel ſjed.

Divin ódum ſpilliſt, óſid margur hylliſt, af réttum vegi villiſt, von þó hjartad qvilliſt, heimur af hreckjum fylliſt, hægt mun ecki' ad dylja þad. Mig ángrar margt hvad. Synd og góßid gylliſt, ſvo géti' menn eignaſt ſjed. Hverſu heimi'er háttad, þad hef' eg vel ſjed.

2. Upphaf allra klækja, er ágirnd ſaſt ad rækja, aura ſafnid ſækja, ſitt frá hverſum krækja, leg med limſku flækja, lagamenn ſína meſt hún bad. M. á. m. h.

6. Adskilnad vorn, og ástmann hvern, er eg felandi Drottni; ad ástum hér, skulum ei skilder, er Gud sjálfur þess vitni; vér sam-mæltumst med sætri gunst, ad sjón ein-úngis skilja, med æru hót, vort mæla mót, megi þad svo til vilja.

7. Þó sundrumst nú, samt er vor trú, sídar munum med gledi, hjá Drottni sjást, med yndi' og ást, allir med hýru gédi, med auðlit bjart, og skrautlegt skart, skínandi fegur enn lilja; sú óska spá, verdi Amen! já! eptir Guds nádar-vilja.

## Ol-erindi,

### ad skilnadi qvedin.

Nú er eg gladur á gódri stund, sem á mér sjer, Gudi sé lof fyrir þennann fund, og vel sé þeim, sem veitti mér.

2. Vitjad hef eg á vína mót, sem nú á sér, reynt af mergum hýrleg hót, vel sé þeim, sem veitti mér.

3. Þó munngáts ord séu mørg og smá, sem opt vid ber, til lasta ecki leggja má, því veldur sá, sem veitti mér.

4. Yndi er ad sitja øls vid pel og gamna sér, en fallegt er ad fara vel, þó or sé sá, sem áskenker.

5. Gott er ad hafa gódann sid, sem betur ser, aldrei skartar óhófid, og er sá sæll, sem gáir ad sér.

6. Gott er ad hætta hverjum leik, þá hæst frammfer; nú skal hafa sig á kreik; vel sé þeim, sem veitti mér!

## Leirkarls Vísur.

Skyldir erum vid skégg-karl tveir, skamt mun ætt ad velja, ockar beggja er efni leir, ei þarf lengra telja.

2. Vid hofum þad af ockar ætt, efnid slíkt eg þecki, bádum er vid broti hætt, biltur þolum ecki.

3. Þad er annad ættar mót, ad ockar hætti réttum, vid hofum bádir valtann fót, veit ei nær vid dettum.

4. Ilát víusins athuga vend, erum vid þess á millt, og þurfum bádir hentuga hond, svo hverugur sínu spilli.

5 Einn eg mismun ockar fann, ef áfell nockur skérda, eg á von, en aldrei hann, aptur heill ad verda. *)

*) Paraphrasis Metrica Biskupsins Mag. J. Þorkéllssonar Vidalíns. *Non est in vasti tota farragine mundi.*

# Barna Spurningar,
## um Kirkju-sidi og Ceremoniur.
### Ungdómi og einfoldum til fródleiks.

---

## Formálinn.

Margt er ónumið monnum í úngdómi,
Því eru skólar settir, að skérpa næmi.
Gagns mun ófródum, Guð tillagði þenna,
Þeir eldri eja únglíngum yðn-þróttir kénna-
Sá lærði á var-gjört lánar-drottni sínum,

---

*Res mihi tam similis quam meus urceolus,*
*De luto terrae finxit mihi membra creator,*
*Materiemque meo terra dat urceolo*
*Communem loquitur gentem constantia, nam pes*
*Alterutri neuter certior esse solet:*
*Nos finxit vino lecythos natura caducos*
*Auxiliatricem poscit uterque manum.*
*Dividimur tamen hoc; vitium si traximus ambo,*
*Ipse mihi, nunquam redditur ille sibi.*

Sem lét hann komast að viðdómi vænum.
Sá úngi á næmi ferskt við Guð að vyrða,
Og í fjársjóð heim flest gott hirða.
Að sinni skyldu sérhverr á að gjæta,
Og ei áqvedið verk ógiört láta.
Því er það fródum fordild og æra,
Sem flesta láta af sér frædast og læra.
Ungum horfir helzt til heiðurs og sóma,
Ydkun og aukníng náms ecki forsóma.
Sá, sem góðs leitar, góðs fær að njóta,
Margt kann óráðþæginn af sér að brjóta.
Hér skal Kirkju-vit koma til greina,
Ungra og einfaldra úrlausnir reyna.
Þeir þurfa að kunna sig, sem koma í hofgarða,
Mér þykir um Guðs hús þó meira varða.
Illa tilreiddur, í kirkju koma,
Mun kristinum vyrðast til mikils ósóma.
Heimska' er að horfa á helg verk-tögi,
En hvar til þau þéna, vita þó egi.
Að heyra á heilagt mál á helgum degi,
Til vansa verdur þeim, sem vitkast eigi.
Að horfa á helg tilfaung húsins besta,
En deili hafa engin á, er dárlégt næsta.
Gjöri engin spott að spursmálum þessum,
Sem eg hér framset í samstæðum versum.
Sá sem vel byggur, vel bið eg njóti,
Fari' honum vit í voxt, en sáfrædi þrjóti.

Leidrétti, ef líta á, lærdir vitríngar;
Þegi eru fyrir þá gjordar þessar spurníngar.
Hverr, sem vitkast vill vid vísdóm auki:
Enginn verdur fullnuma fyrr enn í Guds ríki.
Læraudinn lærir hér svo lengi, sem lifir,
Gud géfi oss sinni gott ad hafa yfir!

---

1. Hvad viltú, kristinn madur til kirkju þinnar?
Ad sækja þángad gagn sálar minnar.
2. Hvad er sálar gagn, seg mér af þessu?
Ad helga hvíldar-dag og hlýda messu.
3. Veitstu hvad hvíldar-dagur hefir ad þýda?
Viku sjound vera og vígd er til tída.
Ellegar ad segja svo í máli mjúku:
Þad er helgur dagur í hverri viku.
4. Seg mér, vid hverja hvíld hañ er kéñdur?
Guds sjálfs — sem í Genesis bók stendur. —
Heila sex daga Gud heiminn skapadi,
Þann sjounda hvíldist hann og í senn helgadi.
5. Hvert vard Gud þreyttur þá hann heiminn gjørdi?
Nei! því hann vann allt med almættis ordi.
6. Hverninn hvíldist hann og þó án þreytu?

Hann lét af ad skapa, þó lángtum meir gæti.
7. Hvernig helgadi Guð hvíldar-dag fyrsta?
Hann setti hann til vidfrægdar verkinu besta.
Hann var stiptadur helzt mannsins vegna,
Sem vilja Guðs hefur vit á ad gégna.
A viku hverri ega menn verk Guðs ad grunda,
Sex daga; á holdid, en sál þann siounda,
Skal þá um leid hverr á Skaparann minnast,
Til heidurs vid hans verk í helgum stad finnast.
Því ber hann fagurt hvíldar-dags heiti.
Sjoundi á ad afslétta sex daga þreyti.
8. Héldst lengi skipunar skickun sú góda?
Allt þar til Jesús uppreis af dauda.
Þann mikla hvíldar-dag mæddur af pínu,
Hvíldist hann í greftrunar herbergi sínu.
En þann næsta dag med upprisu sinni,
Helgadi Kristur, svo hafdur sé í minni.
Rann þá upp spónuhr Drottins dagur,
Mestann bata féck mannkynsins hagur.
Og þá urdu daga-skipti til dýrrar siondar,
Til heilags helgi-halds, heilags samfundar.
Sídan hefur kölluð verid Sunnudags helgi,
Henni trú' eg Endurlausnar æran fylgi.
Helgir Postular hann þar til völdu,

Med rádi heilags Anda, þá ritníngar ſkilda.
Vid ſól er kénndur vegſemdar meſtur,
Drottins dagur vor í daga tali fyrſtur.
Á honum ſkópſt haudur og himin med ljóſi,
Drottins margfaldri dýrd trúi' eg hann hróſi.
Á honum réttlætis ſól rann upp í heidi,
Þá lífid fékk ſigur, en daudinn deydi.
Því er hann og Drottins dagur kalladur.
Sá, ſem hann heldur vel er heilagur madur.
Á ſama vikudag ſendiſt af hædum,
Heilagur Andi Guds med himneſkum gædum.
9 Hvad kallaſt ad helga hvíldardaginn?
Ad gjöra ſem kénna Guds kirkju lögin.
Helgar ſá hvíldardag, ſem hefir í minni,
Öll ſköpunarverk med endurlauſninni.
Og heilags Anda helgunar gædi,
Sem alla menn med ordi Guds endurfædir.
Sá ſem med alúd ordi Guds hlýdir,
Af heyrn ödlaſt trúna og hjálprædi um ſídir.
Sá lærir þrennann Gud ad þeckja og dýrka,
Hlid himins er honum heilög kirkja.
Hverr ſem ákallar í helgum ſöfnudi,
Nafn ſíns Drottins, nád fær hjá Gudi.
Hverr ſem á helgum degi Herrann príſar,

Sannann Guds Lazarum sig bevísar.
Sá sem Guds Sakrament med sóma brúkar,
Sinni þurfandi sál sætlega hjúkrar.
10. Kynntu mér hvad kirkja þýdir?
Þad er heilagt hús, sem helgan Guds prýdir.
Kirkja heitir bæna-hús Krists dýrdlínga,
Eda vígt herbergi ad tala um Gud og sýngja.
Kyrios í grisku máli er Drottinn dýrdlegur,
Guds hús af Gudi sjálfum Glóserun dregur.
11. Hvad merkir kór, þar Krists er altari?
J saungvígdum parti sýngjandi skari.
12. Hvad er altari med sínum sóma?
Þad er gøfug stó Guds helgidóma.
A altari vóru offur løgd ádur til forna,
Og qveikt upp reikélsi qvøld og morgna.
En nú er þar andlegt bord andlegrar fædu,
Þar Kénnimenn tilreida Krists qvøld-snædu.
13. Því eru lísleg ljós sett á altari?
Svo helgidags prýdin sé því háleitari.
Sú Ceremonía er sólpur Guds dýrdar,
Og dýrt heilla merki Drottins hjardar.
Sjálfur Gud býr í sínum helgidómi,
Eilíft ljós er hans andlitis sómi.
Ljómandi Gud nefnist ljóséins fadir,

Ljóssins born eru hans lýdir kalladir.
Jesús er líf og ljós lifandi manna,
Sem upprann og ofankom af hædum himnanna.
Kérti er af tveim hlutum, qveik og tólki,
Þar á logi ljós, sem lýsi fólki.
Það klára kirkju ljós, Kristur blessadur,
Einn med tveimur náttúrum er Gud og madur.
Minnir oss messu ljós á manndáð skjæra,
Að vondum verkin góð, sem vor er æra,
Kénnir oss kirkju ljós qveikt á altari,
Að lucka vor, líf og trú leikur á skari.
14. Hvað þýða klæði þau hökull og serkur,
sem um messu tíma íklæðist Klerkur?
Mark og einkénni er messunnar skrúði,
Sá honum klæðist er Krists sendibodi.
Eins og Guds Engill sást á Páskadegi,
Hvítklæddur í stein-þrónni hægrameginn.
Einnig eru upptok þess í eldra Testamenti,
Tignar-klæði bar sá í tjaldbúð þénti.
Í Arons Prests skrúda var ærinn blómi,
Að Guds skipun þá hann gék í helgidómi.
15. Hvar fyrir er kluckum hringt til messu?
Gud er frumqvodull ad skicki þessu.
Á Sinai fjalli svo bar til fordum,

Aður enn himna Guð hreifði þar orðum.
Hvell básúnu hljóð hann lét þar klíngja,
Þar af er fidur sá til saungs að hríngja:
Svo tidt sem málmurinn fyrir messu géllur,
Teiknast oss dómsdags blómurinn hvellur.
16. Seg mér hvað messan er í merkíng sini?
Heilög þjónusta í helgu inni.
17. Hermdu mér, hverr er þar helzt að þénari?
Sá, sem er skrýddur fyrir skjæru altari.
18. Hvað gjörir sá þjón þegar hann messar?
Hann afleysir, prédikar, biður og blessar.
Í vatns-fonti skírir vitur saungvari,
Deilir út brauð og vín, við Drottins altari.
19. Er margt að gjöra í messu embættinu?
Sjö verk, sem nú vóru sögð öll í einu.
20. Er margt súngið í messu veglegri?
Helgir saungvar fimtán hverr öðrum fegri.
21. Hvað heita saungvar þeir, seg mér hið rétta, eg held vísdóms ment að vita þetta?
Upphaf messu er fyrst inngaungu psálmur,
Gengið er til kirkju og géllur þar málmur.
Þar næst er friðar bón frammflutt í messu,

Kyrie er upphaf á kórstemmi þessu.
Þá kémur Engla saungur af Presti hafinn,
Og dýrd sé Gudi í upphædum géfin.
Þá er messu bæn í heyranda hljódi,
Eptir Gabriels ord sögd til söfnudi.
Þar næst Postula mál Pistill tóuadur,
Og Hallelujah vers, sem himnana gledur.
Þar nærst himna-saungs fylgjan fögur,
Sequentian, sem sætann seim dregur.
Þá er Gudspjalls gledilegur rómur.
Og Credo, sem játar kristinndómur.
Vers eptir prédikun med són sætum,
Helgunar edla ord undir sínum nótum.
Sakramentis psálmur óvandur,
Súnginn medan útdeilíng yfirstendur.
Þá er þacklætis bón byrjud af Presti,
Sídan blessunar ord, sá Sermóninn besti.
Utgaungu psálmur endar helga messu;
Himneskt er skémtan ad hlýda þessu.
Allir í söfnudi ega þessa saungva,
Yfir hafa þar til úr kirkju gánga.
Þeir med vorum lágt, sem vantar saungs-róma,
Svo kirkjan med kórnum samsýngi, Amen!

22. Er nú þetta' ætíð súngið hið sama?
Nei! því að sitt mál heyrir hverjum tíma.
Adventa, Jólin, að Kindilmessu,
Lángafasta og Páskar ljá oss þá vissu.
Uppstigningar-dagur og Hvítasunna,
Þrenníngar-hátíð og þaðan til Advent-
unnar.
Tímar Kirkju-ár sins með termínum þessum,
Svo sér skipta og líka saungvar í messum.
23. Flytjast margir Sermónar framm í
Guðs húsi?
Eg vil telja þá upp, svo úr spurníng leysi:
Fyrsti á sæti þar, sem fólk við skriptast,
Þrír á prédikunar-stól', og þeir svo skiptast:
Áminníng til bænar er þeirra hinn fyrsti,
Guðspjalls útlegging annar sá næsti,
Almennileg bænagjörð er þriðja ræða,
Þá predikun endast, sú fólkið á að fræða.
Fimti er áminníng fyrir Guðs altari,
Áður enn bergir innargaungu skari.
Sjötti við kirkjudyr þá konur inngánga,
Eptir sinn barnburð og útistöðu lánga.
Sjöundi við kórdyr, þá saman skal hjón vígja.

Attundi þá afleyst er opinberlega.
Níundi vid Fontinn, þá fogur vatns-skirnin,
Handtérnd er og helgud Gudi barnin.
24. Ad upphafi spyr eg ársins kirkjunnar?
Pad er fyrsti Sunnudagur Jólaføstunnar.
25. Hvad er þá í fyrstu framsett til menta?
Þrefold Herrans heilog Adventa.
26. Hvad er á Jóladag helzt lagt í minni?
Maríu Sonar Fæding af Módur sinni.
A Atta-dag af Drottins umskurnar sári,
Og nafninu Jesú med Nýa-ári.
Opinberunnar hátíd heitir Þrettándi,
Þá komu Vitringar úr austur-landi.
María á Kyndil-messu kom í musteri,
Simeon sann Krist þar, svo sem hann á kjøri.
A Føstugángs Sunnudag, svo hljódar kéning,
Vid skírn Kristí var heilog þrenning.
A Bodunar Hátíd Maríu birtir letur,
Um Kristi gétnad sá dagur gétur.
A Skírdag er framsett sú kirkju ræda,
Hverninn menn hold og blód Herrans snæda.
A Lánga-Frjádag er lesin Pasla,
Þad er Herrans Píningar heil Historía.
27. Hvad er á Páskadag prédikad lýdum?

Af sældar Kristi upprisu sigri friðum.

28. Hvað er á Uppstigníngardag hast
til kénníngar?

Dýrðar upphafníng Drottins Uppstigníngar.

29. Hverr er lærdómur á Hvítasunnu
kénndur?

Um helgann Anda, sem af hæðum var sendur.

30. En á Trinitatis Tignar-degi hrein-
um?

Þá er af Guði sagt þrennum og einum.

31. Hverr eru' á Jóns-messu framsett
fræði?

Um fæðíng Jóhannesar og Foður hans los-
qvæði.

32. En á Vitjunar-dag Maríu Guð's
Móður?

Hebróns Samkónía og hennar dýr óður.

33. Hvilík er á Michaelis-messu Musti-
eris ræða?

Um Englanna og úngbarna edlið góða.

34. En á Allra-heilagra-messu degi
mætum?

Segist þá af útvaldra sældar-hag sætum.

35. Hvern-

35. Hverninn er mögulegt ad miñast Prests kénníng?
Ef eg prédikunar athugq þrenníng.
Fyrst lærdóm þá, sem lætur upp hid sanna,
Hvar á sig festir heilög trú manna.
Annad er áminníng öllum til betrúnar.
Sem varar vid illu, svo verdi' ei til hindrunar.
Þridja er huggun sæt, í sorg hverskonar,
Sem glædir upp géd manns til gódrar vonar.
36. Attú margt ad gjöra þá til kirkju kémur?
Þad er innifalid í atvikum þremur.
Fyrst kém eg í bæna-hús ad bidja med ödrum,
Sáluhjálpar sjálfum mér, og sam-kristnum brædrum.
Þar næst ad byggnast og hlýda kénníngunni,
Þridja lagi ad þacka Gudi med rödd og munni.
Hér ad auki á eg á tilsettum tímum,
Ad gjöra mig líkann Guds kirkju-limum.
Fyrir Gudi og Prestinum grátandi skriptast,
Svo eg megi hvervetna huggast og typtast.
Hér næst ad vera í heilögu samneyti,
Guds Sonar holds og blóds med gledi og þacklæti.
37. Ecki er enn ad öllu spurt, á vil eg hlýda;
Hvad mun skriptargánguriñ hafa ad þýda?
Hann merkir játníng hjarta og munns þrenna,
Í fyrstu þar sorgfullir syndir vidurkénna.
Og kémur sú hjarta-sorg af hördu lögmáli,

Sem synda þeckingar sannur er skóli.
Trúar játan þar nærst í skriptargángi skédur,
Því synd-framda samvitsku Gudspjallid gledur.
Hlýdnis játan þridja heitir í skriptargángi,
Þar gódri lifnadar bót Gudi lofar mengi.
38. Veitstú hvad gott það er Gudi ad játa.
Dýrmætt og heilsusamt, djøfli afneita?
Það má kalla trúlofun og trygda sáttmála,
Sem vid Gud sinn í skirn gjørdi hver sála.
39. Hvad er Guds stórmerki, sem hverr eirn játar?
Øll skickan sú, sem hann vill vera láta.
Það eru øll hans løg og himneskt réttindi,
Sem bjóda hvad rétt er, enn banna rángindi.
Það er líka Guds nád í Gudspjalls sannindum,
Sem neitar sig vilja nockurr deyi í syndum.
Kallanar kristinndóms kóngleg regla,
Og Sakramentin bædi, er svoddan innsigla.
40. Hvad kallar þú Satans verk og vilja?
Synd og glötun manns, svo er það ad skilja.
41. Því óskar þú aflausnar af Presti,
Þar hañ er líka brotlegur og hefir sína bresti?
Það gjørir hans postullegt Prests-embætti,
Jesús þá fordum í sinn stad setti.
Þá Prestur afleysir med yfirlegging handa,
Talar hann ei sín ord, heldur heilags Anda.
Í Jesú nafni vil eg vera af syndum leystur,
En ecki sjálfs þess, sem framflytur lestur.

42. Hverninn kann aflausn Prests á þér ad
hrína?
Guds Andi gjorir þad fyrir góda trú mína.
Kraptur Kristi blóds kann mig ad hreinsa,
Og alla trúada, af ollum sálar vausa.
Ad gjensvorum þínum gédjast vel heyrn minni.
Verdi þér, vinur! eptir vænnri trú þinni!

## Epilogus.

Hér nærst vil eg í skíluad skila erendi
Frelsarans, sem til þín med fridar bod mig sendi.
Ef Legáti Konúngs ad þér leita færi,
Og hans tignar nádugt bréf til þín bæri,
Og væri hans Majestatis Mandat þar inni,
Ad þú skyldir í barm slínga bréf-perlu sinni,
Og læra fyri utan letur, sem á stædi,
Og af trú blífa vid bréfsins heilrædi;
Þá skyldi hann unna þér af ríki sínu,
Til æru þér og uppheldis ætterni þínu,
Mundir þú í bréfsins innihaldi þig æfa,
Og Legátann einnig í heidri hafa.
Nú er Biblían bréf Kóngsins hærsta,
Hans nádar sendiboda haldtú þína Presta.
Muntú því, barn-korn! þá í Guds hús gengur,
Herrans ord er þér himnesfur fengur.
Athuga þú prédikunar Prestsins uppqvædi.
Og vittú hvar þad samhljódar vid þín Barna-
Frædi.

Að Guðspjalls innihaldi gá, sem þú gétur,
Og hvað marga púnkta Prestrinn framsetur.
Festu í minni þínu fögur heilræði,
Líkíngar séu þar, sem lifandi fræði.
Af huggunar ummælum haf sálar gleði.
Sit þú undir prédikun með góðu géði.
Láttú góð dæmi til góðs þig upphvetja,
En illra vond afdrif frá illu þig letja.
Vert' ecki gálaus þá Guðs orði hlýðir,
Né fljótur í burt, svo ei blessunar bíðir.
Geym þú svo Prests orð, sem Guðs munnur segði,
Athuga hans ráð góð, sem Engill Guðs legði.
Því öllum mönnum verður eptir trú sinni;
Gott er að gjöra vel og gott leggja' í minni.
Kynntú þér utan=bókar kór=saunginn væna,
Amen! segðú til allra kirkju=bæna.
Hátíðir skaltú í hávyrðíng hafa,
Gladur þá Guð þinn í Guðs=húsi lofa.
Guð mun þér kirkju=sókn svo góðu launa,
Endíng munt sæla fá allra þinna rauna.
Hreppa muntú veru í himnanna ríki,
Vinna Guðs útvaldra verður þú líki.
Messu spurníngar þúlan sú barna,
Qveð eg megi heita: Kirkju=vit Barna.



# Bergmál.

Mun Gud marga til dómsins kalla? Alla.
Eru allir trúadir á þeim degi? Eigi.
Er nockyrr siálfkrafa saklaus fenginn? Enginn.
Hvernig gengur þeim er heiminn villa? Illa.
Hvad er þad, sem Herrann þeim sendir? Endir.
Hvad heyra þeir svo sárlega sýti? Ite.
Hvar mun þeim reidast rúm ad qveldi? I eldi.
Nær komast þeir úr qvol margfaldri? Aldrei.
Hvilikt heyrist hjá þeim hrópid? Opid.
Gud láti þángad fara fáa menn! Amen!
Hver eru laun, sem Gud vill frómum færa? Æra.
Fara þeir nockud frá nád margfaldri? Aldrei.
Er þeim þá búin eilif vita? Ita.
Hvad gefa þeir þá í Herrans hondur? Ondu.
Hvad munu þeir þá í fognudi segja? Eja!
Halda þeir lengi þad sælu satid? Ætíd.
Hverr verdur endir á því gengi? Enginn.
Gud veit eg þeir losa þar þráfaldt; Avallt.
Gud géfi oss ad vera þeim þó hjá! Ojá!
Gud géfi oss ad siá þar þá menn! Amen!

# Vidbætir,

innihaldandi

## Nockur Ljódmæli,

sem eignud eru

Síra Hallgrími Péturssyni.

### Bænar Psálmur um líkamlega blessun.

Lagid: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

Almáttugi og mildi Gud, miskunsamasti Skapari, hverr vanur ert ad leggja lid, lýd þig bidjandi í neydinni; þar fyrir vonar hverskyns hold, Herra veitandi uppá þig, bædi yfir og undir fold, ad þú, Drottinn! forsorgir sig.

2. Æ Drottinn! þessa dýra tíd, daglega hofum forskuldad, sem yfirgengur land og lýd, lánleysi og húngur fylgjast ad, hér

er framkomin hótan þín: hafna skal jerdin ávexti, synjandi brauds, sem bodord mín, brjóta med allskyns ránglæti.

3. Aví! misgjerdir þryckja þétt, þær oss forláti Drottins nád, gjald oss ei eptir glæpum rétt, gjædskunnar Fadir! ríkur af dád, uppljúktu þinni hjálpar hend, húngrud og naudstødd børnin sed, allar sképnur, sem eru med ønd, almáttug gjædskan nær og gled.

4. Vitja vørs lands, svo verdi þad, veitandi sinni frjósgun af, krýn þú vort ár, svo komi oss ad, kroptug blessan um jerd og haf; drjúpi þín fótspor fullri nægd, Fadir himneskur morgna og qveld; géfandi braud, en veittu vægd, vér þó verdskuldum allskyns gjeld.

5. Søkum þess, makt þín mikil er, miskunar stórt þú hefir vald, ávoxtud skýin útbreider, eins og himneskann klæda-fald, géfandi regn, svo grænkar jerd, greidandi fódur qvikfénad, úngum hrafnanna býr þú bord, bidur náttúran þig um þad.

6. Þú mettar bædi menn og fé, margann rennandi straums úr lind, stillir þú svo hann framfljóte, fyrir sérhverja þessa kind, vid þá fuglarnir sitja, en sætt, sýngja þér

lof á fegrum qvist, blánkar á landið vatni vætt, væna erfandi gledi-lyst.

7. Svo af sád-korni bakast braud, brjóstið gledur hið sæta vín, oleum gjörir andlit raud, med edlis gódum krapti sín; vor Gud! hvad eru verk þín sett, vísdóms-lega í hóllann skamt, oll hefir þú þau reglad rétt, ríkur ávallt, en géfur þó samt.

8. Oelætis Drottinn! upp nú lát, efri loptanna séssjódi, útaus gródri, svo qvaki kát, korn-þurfsug hjörd á jordunni! Herra Jesú! sem hefir mett, húngradann lýd á eydigrund, kom og gjör voru landi létt, lina þú vorri þrauta stund.

9. Afgángi þess blessada brauds, být þú nú út med húngrudum, sem annars fara' í sult til dauds, saudi þá kénndu' í brjósti um; þín hefir ecki hondin styttst, himneska nafn þitt vona' þeir á, sem bjargrædi sitt hafa mist, signadi Fadir! aumka þá.

10. Nær þú géfur, svo neytum vær; enn nemirdú þína blessun frá, undir eins kémur eymd frábær, engin sképna þá lifa má; Andi þinn kann ad skapa skír, sképnum sínum hvad heilnæmt er, endurnýun hans edla hýr, allt forbetrar, sem jordin ber.

11. Géf

11. Géf vorri fædu kjarna' og krapt, ad komi oss hennar næríng vel, svo sem þú lagdir falla og saft, sjálfur fordum í himna-mél, ecki lifum vér einúngis, af þessu braudi stundlegu, heldur af ordi hjálprædis, himneska Fødurs blessudu.

12. Blessun tak ei úr braudi því, sem bjarga voru lífi á, heldur velsigna art þar í, sem Elísæi braudin fá, húngrudum, Drottinn! hjálpa nú, hallæris þeirra mýk þú stund, og fyrst fuglana fædir þú, forsorga oss á alla lund.

13. Alla fátæka anníst Gud, sem eckjuna í Sareptá, svo efist ecki í eymd og naud, óþolinmædi' ei sigri þá; heldur af-þreji' í helgri von, med hjartans ydrun, bæn og trú, mildasti Jesú Maríu Son, miskuna oss.og blessa þú!

14. Metta sál vora med þín ord, miklu sætari veri þau oss., enn hunáng þó þú berir á bord, blessa þá og vorn rauna kross, allt þángad til vid bord þitt blídt, barna Guds býrdar ríki í, auglit þitt skoda fáum frídt, fullsælir vel af yndi því.

---

## Qvædi um Krists kraptaverk.

Maktin Guds er mikil og há, mædda ad endurnæra, þad vil eg læra í ljóda smíd ad færa.

Þá Lausnari heimsins holdi klæddist, heilagur og synda hreinn, af meyar-lísi fegru fæddist, fornum reisum vasdur sveinn, margur af hans forsegn fræddist, fram svo lidu stundir þá. Maktin Guds er mikil og há. Af laungum meinum lýdurinn græddist, lífs fyrir ordid skjæra. Þad vil eg læra í ljóda smíd ad færa.

2. Kóngs madur einn af Kapernáum, kom til hans í gódri von, bad hann (ljóst, sem letrad sjáum), ad lækna þar sinn veika son. Ansadi Jesús ordum fáum, en vid þad þeim sjúka brá. M. G. e. m. o. h. Hann baud og einnig anda þráum, annann þar ei færa. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

3. Mág-kona Péturs qvalin af koldu, kanna mátti lánga þraut, Jesúm þángad virdar voldu, vægdar af honum fljódid naut, fyrna margt af fólki' ótoldu, færdu adrir til hans þá. M. G. e. m. o. h. Þeir sem líf í eymdum oldu, úr ángist sjerdi færa. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

4. Til Lausnarans kom einn líkþrár madur og lækníngar bad þegi seinn, það veitti Drottinn hjálpar hradur, honum sagdi: vertú hreinn! Ikt-sjúkur í sæng ógladur, segir til hans: hann taki þá. M. G. e. m. o. h. Hann géck burtu heilbrigdadur, med huggun sálar skjæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

5. Jóhannes lætur letur útgánga, lá þar einn af sóttum sár, þjáníng bar sá þrauta lánga, þrjátíu heil og átta ár, sífeld gjerdi hann sútin stánga, sat vid díkid Bethesdá. M. G. e. m. o. h. Heilsubót ad hann lét fánga, himna-ljósid skjæra. Þ. v. e l. í l. s. a. f.

6. Máttlaus hendin veikleik vafdi, þeim veitti Drottiun heilsubót, margur hann þar hjálpar krafdi, hættri vafin písla-nót, sem dofa, ikt og djøful hafdi, deysu, blindni og líkþrá. M. G. e. m. o. h. Fódrid sálar ei fyrir tafdi, ad frida þá og næra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

7. Þá Frelsarinn ofan af fjalli vendi, og fagra rædu hafdi endt, Lærisveinum og lýdnum kénndi, lífsins orda ædstu ment, spitelskann áhrærdi hendi, hreinn vard strax ad bragdi sá. M. G. e. m. o. h. Þjón

höfdíngjans heilsu sendi, hörmúng lét ei
særa. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

8. Um borg og kauptún bodadi Kristur,
beinann veg til himna ranns, sem herbergi
féck líknar lystur, leiddur þángad var til
hans, einn, sá djefull bagadi bistur, bædi
firrtur ad tala og sjá. M. G. e. m. o h.
Dýrdar blómid Davíds qvistur, daprann
gjerdi næra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

9. Þá Jesús yfir öldu-geima, almáttugur kominn var, tvo besetna sá hann
heima, sér á móti hlaupa þar, í daudra gröfum höfdu heima, hörfudu sídan fjöllin á.
M. G. e. m. o. h. Djöflana lét í svínin sveyma, svartir þeim fortæra. Þ. v. e.
l. í l. s. a. f.

10. Í tólf ár konu mjög réd mæda mein
þad fylgir qvennkyni, svo madur enginn mátti
græda, þó miklu þar til kostadi, sem faldinn snerti hun Kristi klæda, kénndist vera
frí þar frá. M. G. e. m o. h. Vid
hana gjerdi Herrann ræda, hughraust
vertu hin kjæra! Þ. v. e l. í l. s. a. f.

11. Þá Herrann Jesúm himins og
landa, heyrdu gánga blindir tveir, hrópa
lúdir hátt, þar standa, hjálpar af honum
beidast þeir; þeim dyymman framar gjerdi

ei grandà, græddi rótin Jesse þá. M G. e. m. o. h. Hann band og deckum djøf-uls anda, af dumbum burt sig hræra. P. v. e. l. í l. s. a. f.

12. Kananeíska qvinnu þreytti, qvol, sú hennar dóttir sker, vid blídann Jesúm bæn-ar neytti, boli því ad letta af sér; á af-sverunum ei sig steytti, er hún tvísvar hlaut ad fá. M. G. e. m. o. h. Aumri síd-an adstod veitti, Arons blómstrid skjæra. P. v. e. l. í l. s. a. f.

13. Daufann hvern þar mæddi' enn meira, mállaus var hann vafin sút, til Je-súm leiddi fólkid fleira, Frelsarinn þá hrækti út, fíngur í hans færdi eyra, fyrir þad sterka Hephatá. M. G. e. m. o. h. Madurinn gjørdi' ad mæla' og heyra, magn-ast Herrans æra. P. v. e. l. í l. s. a. f.

14. J Bethsaida blindann líta, blessad vildi meyar sád, samt þó ecki voladann víta, en veita heldur læknis dád; í hans gjørdi augu spýta og yfir hann lagdi hendur þá. M. G. e. m. o. h. Hann þurfti' ei leng-ur sjónlaus sýta, svoddan dæmi' oss næra. P. v. e. l. í l. s. a. f.

15. Púkinn einn þar hrakti' og hrelldi, er hrumur, dofinn var og sár, eymdir nístu,

frodu felldi, fast hann þjádi andinn slár, vard honum þrátt af vatni' og eldi, vodi sýndur og daudans þrá. M. G. e. m. o. h. Aumann læknar ædsta veldi, ímind Födursins kjæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

16. Efni því ei Lúkas leynir, Lausnarinn þá kominn var, í einhvern stad, sem gloggt ei greinir, til grædslu honum fengu þar, djøfulódann mann med meini, mállaus var, sem leturinn tjá. M. G. e. m. o. h. Ut var rekinn hinn óhreini, fyrir Herrans dygd frábæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

17. Þar hafdi ein kona kránkleiks anda, kreppt og bjúg í átján ár, fyrir ysirleggíng Herrans handa, henni dvínar mædan sár, blessadur leysti vís úr vanda, vertu (sagdi' hann) laus þar frá. M. G. e. m. o. h. Hún dýrkadi Skapara lýds og landa, fyrir líknar nád svo skjæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

18. Blindur, þó sé búinn vodi, borinn var einn í þeirri neyd; sagt er ad Jesús saur tilhnodi og sídan á hans augu reid; Herrans eptir háu bodi, hitti díkid Sílóá. M. G. e. m. o. h. Sem í vatni því sig þvodi, hann þádi sjón svo skjæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

19. Vatns-

19. Vatnssjúkur á Sabbats degi, settur fram fyrir Herrann var. Lausnarinn spyr: hvert lækna megi? Logspekíngar géfa' ei svar; falskir þó vid þessu þegi, í þánka hugsa ráðin slá. M. G. e. m. og þá. Jesús vill þann veika eigi, volædi skuli særa. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

20. Tíu menn í líkþrár lúa, lángt frá stódu og kalla enn, á mildann Jesúm Meistarann trúa, miskunar bidja allir senn; en hann baud þeim burtu ad snúa, og birta skyldi Prestum frá. M. G. e. m. o. h. Veikleikinn þá vard burtflúa, fyrir viljann Drottins kjæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

21. Til Jerichó þá Jesús reisti, játudu tveir í einu þar, ad almátt hans þeir uppá treysti, og af honum beiddust lækníngar; bádum þeim var horfin hreysti, hverugur kunni neitt ad sjá. M. G. e. m. o. h. Guds Son báda ljúfur leysti, þá línadist hrigdar snæra. Þ. v. e. l. í l. s. a. f.

22. Þegar med svik og sára pretti, sækja Kristum Júdas réd, þá var Malchus þyckju metti, þar í ferd og rádi med; eyrad af honum Símon setti, sverdi þegar til varnar brá. M. G. e. m. og þá.

Hondína út ad Herrann rétti, hann nam strax áhræra. Þ. v. eg l. í l f. ad f.

23. Svoddan vel, mín sála! mundu, sanna mildi Guds og Manns, allir líf og lækníng fundu, er leitudu á nádir hans, hvad þig hrellir heims á grundu, hann í trúnni vonadu'á. Maktin Guds er mikil og há. Honum sé lof á hverri stundu, heidur, prís og æra. Það vil eg læra í ljóda smíd ad færa.

## Um sköpun heimsins og Krists híngadburd.

Herrann skapadi lopt og lád, lýdi og blómstrid frída, sá var hagur, sem það kunni smída.

Í upphafi skapadi Fadirinn fyrst, frída jörd med dádum, skóga' og holt med skærri list, af skírum guddóms rádum, yfir það setti hann Adam víst, allvída það stendur skrád. Herrann skapadi lopt og lád. Var þá hvergi veröld bist, svo vesæld þyrfti ad qvída. Sá var hagur, sem það kunni smída.

2. Veröldin breid, med blóma stód, blessud gædum öllum, hún var bædi græn

og góð, glóudu lauf á vellum, fuglar súngu um fiska-slóð, fengu sinnar skyldu gáð. H. s. l. o. l. Lausnarinn af oss létti móð, hann lét sér undir svída. S. v. h. s. þ. k. s.

3. Ljúfir skulum því lúta þér, Lausnarinn allra manna, af miskun komst í heiminn hér, hjálpar skjólið sanna, á herdum þínum heim oss ber, í himna dýrd, þar nóg er náð. Herrann skapadi lopt og láð. Svo vér megum syngja þér, sífellt lofgjerd stída. Sá var hagur, sem það kunni smída.

## Um Fædíngu Krists, Dóms-dag og eilíft líf.

Hljómi raustin barna best, blíd á þessum degi, og lofgjerdin allra mest, oss var géfinn og fæddur, Lausnarinn gædsku gæddur, af meyar qvid, qvid, qvid, af meyar qvid med líkn og lid, líkama vorum klæddur.

2. Austan Kóngar komu þrír, Krist vorn finna vildu, fylgdi þessum fórnin dýr, fréttu af barni skjæru, sem stjarnan óskar æru, gullid best, best, best, gullid best og myrra mest, med reykélsi skjæru.

3. Í þessum fæddist heimi hann, hulinn slæmum klædum, geymdur í stalli Gud og mann, hans gøfug tign mun standa, Lausnarinn allra landa, herfáng tók, tók, tók, herfáng tók og hrigdir jók, hann þeim mirkra anda.

4. Med sætum sigri sá reis upp, Son Guds þridja' á degi, batt þann vonda Belzebúb, bodadi nád svo frída, Lausnarinn allra lýda, til himna fór, fór, fór, til himna fór sú heillin stór, hañ réd fyrir oss strída.

5. Enn þó kémur aptur hann, á tilsettum tíma, þessi' hinn gódi Gud og mann, gjerir þá dóm ad halda, vondum verdkaup gjalda, en kristna þá, þá, þá, en kristna þá hann kallar á: komid í dýrd margfalda!

6. Hinna tala mun Herrann til, hefst þeim lítill fridur: á ydur veit eg engin skil, engann ydar eg þecki, farid á Belíals becki, med lífi' og sál, sál, sál, med lífi' og sál í logandi bál, mig líta fáid ecki.

7. Þér hafid þjád og þvíngun veitt, þýdum Herrans saudum, mína dýrd og mildi sneidt, med svo vondu hádi, yfir því enginn nádi, heljar raun, raun, raun, heljar raun þér hafid í laun, med heitu neista sádi.

8. Herfilegar hefndir þá, hafa, þeir illa gjordu, skilja vill þá Skaparinn frá, skjótlega sínum saudum, sem leyst hefir lífs frá naudum, ,:, hinir bøl, bøl, bøl, ,:, hinir bøl og hrigdar qvøl, hafa hjá djefli snaudum.

9. Heyra má þá hárm og qvein, hátt med eymdar hljódum, sjá þeir þar sitt synda mein, seint þó ad því gættu, þá Syni Guds ei sættu, ,:, í heimi glaum, glaum, glaum ,:, í heimi glaum þeir hefdu taum, hvarma tár ei vættu.

10. Fagrann munu þá fagnadar saung, fridust Guds born halda, æfin finnst þeim ecki laung, um eilífar aldir alda, gledinni Gud mun valda, ,:, ljóminn þá, þá, þá, ,:, ljóminn þá er lýdum hjá, þá lidin er æfin kalda.

11. Haldtú mér vid hópinn þann, himna Fadirinn gódi! er leidir þú í lífsins rann, þar ljómar eilífur dagur, frábær, furdu fagur, ,:, þar sjest ei nótt, nótt, nótt, ,:, þar sjest ei nótt, ei sorg né sótt, sæll er þá vor hagur.

12. Hverr, sem elskar Herrann Krist, hann fær gledi sanna; mín er þar til ljúfust lyst, lofgjørd honum vanda, fyrir hjástod heilags Anda, ,:, og dikta saung, saung,

saung, ,:, og dikta saung um dægur laung, Drottni mínum til handa.

13. Mér lítst nú kominn tími til, ad taka sig hédan búa, mínar syndir, minn Gud! hyl, mér ei verøld lætur, eg géf henni gódar nætur, ,:, heim til þín, þín, þín, ,:, heim til þín frá hrigd og pín, hafdú mig, Jesú sætur!

14. Valt er þetta veraldar hjól, velt er heimsins blída, þú, réttlætis sanna sól, sálna hirdir mætur! géf þú ad mér gætur, ,:, heim til þín, þín, þín, ,:, heim til þín, frá hrigd og pín, hafdú mig Jesú sætur!

15. Mig lángar hédan, Lausnari minn! og lystir þar ad búa, sem eg hærstu huggun finn, því heimurinn ílla lætur, um daga og dymmar nætur; ,:, heim til þín, þín, þín, ,:, heim til þín, frá hrigd og pín, hafdú mig Jesú sætur!

16. Þá er eg gladur, Gud! í þér, gladur í himnaríki, þar gledi' um eilífd gladvær er, og gledi' útvaldra manna, þá sælu géf mér sanna, ,:, Amen til, til, til, ,:, Amen til eg ósta vil, enginn mun þad banna.

## Reisu-Psálmur.

Lagid: Gled þig Guds Sonar brúd!

Jeg byrja reisu mín, Jesú! í nafni þín, hendin þín helg mig leidi, úr hættu allri greidi; Jesús mér fylgi í fridi, med føgru Engla lidi.

2. Módur-jørd minni frá, þín mildin gædsku há, leiddi med lucku blída, og létti øllum qvída; J. m. f. í f. m. f. E. l.

3. Þín fødurleg nádin frí, framandi løndum í, forsorgadi og fæddi, fullvel nærdi og klæddi; J. m. f. í f. m. f. E. l.

4. Frá fári, sorg og sótt, síd, árla, dag og nótt, vel mig jafnan verndadir, voldugi hjartans Fadir! J. m. f. í f. m. f. E. l.

5. Hér fyrir hverja stund, af hjartans innstu grund, þér vil eg þackir skíra, þrenníng Guddómsins dýra! J. m. f. í f. m. f E. l.

6. Vil eg nú víst til sanns, vitja míns fødurlands, í þínu nafni' alleina, almættis tignin hreina! J. m. f. í f. m. f. E. l.

7. Flý eg nú því til þín, þú hjartans vonin mín! verndin þín vel mín gæti, svo voda engum mæti; J. m. f. í f. m. f. E l.

8. Þó eg med íllsku ment, opt hafi straff forþént, samt mjúk þín miskun hlífi, mér

hædi' á sálu'og lífi; Jesús mér fylgi' í friði, með fegru Engla liði.

9. Í voda, vanda' og þraut, vel eg þig ferunaut, yfir mér vyrdstú vaka, og vara á mér taka; J. m. f. í f. m. f. E. l.

10. Þá sjáfar-bylgjan blá, bordinu skéllur á, þín hægri hend oss haldi, og hjálpi med Guddóms valdi; J. m. f. í f. m. f. E. l.

11. Frá stormi'og sterkum vind' og stríðri sjáfar mind, frá ógudlegu' íllþýði, allskyns voda og stríði; J. m. f. í f. m. f. E. l.

12. Þá vil eg þacka þér, nær þú hefir hjálpad mér, sem Jakob fadirinn fordum, med fegrum bænar ordum; J. m. f. í f. etc.

13. Þú skalt í allri naud, ætíð vera miñ Gud, þér vil eg þjóna, trúa, og þackargjerd tilbúa; J. m. f. í f. m. f. E. l.

14. Mitt hjartans trúar traust, til þín er efalaust, ad mér med miskun skjærri, munir þú vera nærri; J. m. f. í f. m. f. E. l.

15. Ljóst þegar lífid dvín, leid þú mig heim til þín, í fødurlandid fríða, firrtann vid allann qvída; J. m. f. í f. m. f. E. l.

16. Amen! o Jesú minn! ad þér tak þrælsinn þinn, til skips þá gánga géri, Guds Englar med mér veri; Jesús mér fylgi'í fridi, etc.

## Áminníng að vera ánægður með sitt.

Málsháttʼ hafðú'í minni einn, minnis verður hann stæður, tók eg penna, þó tregur og seinn, að tempra vísna glæður, svo mun reña raddar teinn, rétt í orðsqviðs máta: þetta mun Drottinn dýrstur eiñ, duga'að sonu láta.

2. Orðtækið gamla ei skaltú, í orða ræðu skérða, sérhverjum eptir sinni trú, síðar og fyrr mun verða, ef á stoðugum stofni sú, stendur; því munt játa; þetta mun Drottinn dýrstur einn, duga'að sonnu láta.

3. Fuglarnir hafa saung ei stór, þá fæðir sinnar leita, að morgni hverr fastandi fór, að fá þeir skyldu neyta, á qvöldi aptur kémur hverr, qvíðalausir ei gráta; þetta mun Drottinn dýrstur einn, duga'að sonnu láta.

4. En þó ei mestu efni hér, o maður! hlotnast kunni, ervæntíngar aldrei þér, orð lát heyrast af munni, segðú heldur, sem þér bér, svo með hyggju káta: þetta mun Drottinn dýrstur mér, duga' að sonnu láta.

### Q v æ ð i.

Sat eg undir fjallinu fríða, heyrði'eg fagrann
fugla saung, um dægur laung, ekki
reykaði hugur miñ þá víða.

Fródur beida mig réd madur, mærd framleida sinnis gladur, fjølnis veida sengurinn hradur, fer þó tregur róms um gaung; heyrdi' eg fagrañ fugla saung. Vid málid greida stend eg stadur, støkurnar mjúkt ad smida; ecki reykadi hugur minn þá vida.

2. Sá eg mørk af vildis verkum, vafin børk ó skógi merkum, ein var bjørk med ylma sterkum, aldins fegurst veitti faung; h. eg f. f. s. Mektar ørk á mynni og querkum, midla smecknum blída; e. r. h. m. þá v.

3. Fuglar sveyma' i føgrum ljóma', føgnud geyma'og saungva róma, i gardi þeim má heyra hljóma, hljódin lysing, mikil og laung; h eg f. f. s. Allskyns seima bestann blóma, ber sú mørkin frida; e. r. h. m. þá v

4. Limid nýtt med laufum þéttum, leyptrar blídt á qvisinum sléttum, blakar tídt med blóma settum, blaktir mjúkt á hverri snúng; h. eg f. f. s. Glansar frídt med gylltum blettum, geislar fagrir bida; e r. h. m. þá v.

5. Eg nam standa og því undi, øllum vanda firrtur mundi, allrahanda fagnadar fundi fángin þóktist hyggjan raung; h. eg f. f. s. Sárum anda sidan stundi, sú nam gledin lída; e. r. h. m. þá vida.

6. Vindar furdu hastir hrærdust, hræsvelgs burdum allir nærdust, blómstur f. þurdu flestøll særdust, féllu lauf af eikar spaung; h. eg f. f. s. Følar urdu, sølnadar særdust, sérhver þollin blida; e. r. h. m. þá v.

7. Fugl-

7. Fuglar súngu lystugt lengi, ljúfri túngu sælu gengi, harma sprúngu frá eg fengi, ferdin gjerdist mikil og laung; h. eg f. f. f. J frosti þúngu fannst þá enginn, fegnir í hylming skrida; e. r. h. m. þá v.

8. Allur skógur er falliñ fagur, fölnadur plógur, en sorgar-slagur, eflaust nógur, hrærnar hagur, horfin gjörvöll lysta saung; h. eg f. f. f. Vakuar rógur, dvinar dagur, dýr og fuglar qvída; e. r. h. m. þá v.

9. Veraldar prýdi'og glisleg gædi, gét eg lídi og solni bædi, glaumurinn fridi' og fegurdar ædi, flýr í svip um leyni-gaung; h. eg f. f. f. Lif med stridi'á lausum þrædi, leikur og öll þess blída; e. r. h. m. þ. v.

10. Siglu karsi hleidólfs hversi, hafdi' hinn djarfi minnst atgérsi, féck i starfi af fryggjar ersi, farar-spéll med hverri raung; heyrdi'eg fagr-ann fugla saung. Gyllings arfinn skenkti' ad skérsi, skírnis dryckinn þýda; ecki reykadi hug-ur minn 'þá vida.

## Um Veraldarinnar háttu.

Heims hrörna gædi, hnignar allt og þver, leik-ur líf á þrædi, en luckan völt er.

Brögnum skal nú bjóda, bragarins litiñ gróda, Gud eda virda góda, gjarnan vil eg ei hnjóda, um hætta hegdun þjóda, hér þó margt eg rædi; heims hrörna gædi. Sizt, ef satt skal ljóda, sjálfum haga'eg mér; leikur lif á þrædi, en luck-an völt er.

2. Villast menn úr máta, má það sannleik játa, minnst sér móti láta, mun það engin gáta; marg-ir stoltsa og státa, með skrílætis æði; h. h. g. Má sá mæddur gráta, sem meira okið ber; l. l. á þ. en l. v. er.

3. Veröld margann villir, vitrum mönnum spill-ir, holdið háskann hyllir, hugmóð brjóstið fyllir; ágirnd andinn gyllir, svo yfirvöldum næði; h. h. g. Margur á tá sér tyllir, tæpt þó standi hér; l. l. á þ. en l. v. er.

4. Maktin magnar kala, meir enn eg um tala, margir metorð fala, mergð fyrir ríkisdala, búk af björnum ala og bera vegleg klæði; h. h. g. Hugannum hér með svala, hvað sem á eptir fer; l. l. á þ. e. l. v. e.

5. Margir hugarhrestir, hátt eru stundum fetst-ir, fá ár ríkja flestur, fjörið dauðinn lestir, enginn fót svo festir, að fyrir því bragði stæði; h. h. g. Allir erum vér géstir, eitt erfum, sem ber; l. l. á þ. e.

6. Veraldar vesinar hagur, velkist blóminn fagur, gleði dvínar dagur, dauðinn er ekki ragur, í burt dó margur magur, þó Mammon nógann græði; h. h. g. Ekki er, nunninn slagur, and þó hreppum vér; l. l. á þ. e. l. v. e.

7. Ungur orku réttur, opt á stól er settur, voldum voða þéttur, varla þykist mettur; degi síðar dettur og dreifist kraka-sæði; h. h. g. Valdi og vyrðing flettur, víkur frá því ber; l. l. á þ. e. l. v. e.

8. Stundleg stjórn vill þrotna, stoltari hefðar gotna, engir um eilífð drottna, eikur háar brotna, sem tréð það lága og lotna, lík verða þan bæði; h. h. g. Ríkir í jörðu rotna, ráð er að gæta að sér; l. l. á þ. e. l. v. e.

9. Líf með hógværð laga, og láta' ei yfir klaga, Það er sæmdar saga, að sóna' ei neinum baga, um alla æfi daga, er sá sæll því nædi; h. h. g. Undir Drottins agá, ollum lúta ber; l. l. á þ. e. l. v. e.

10. Hug við heiminn festa, hætta er hin mesta, stundlegt blóm vill bresta, búin er sorgin mesta; synda særing versta, sannur Drottinn græði; h. h. g. Síðast sjer það besta, senn þegar æfin þver; l. l. á þ. e. l. v. e.

11. Guð frá grandi nauða, geymi ríka' og snauða, hópnum Herrans sauða, hjálpi hans blóðið rauða, svo glæpa girndin trauða, gjöri' oss ei vandræði: heims hrørna gæði. Líka' í lífi' og dauða, líkni Drottinn mér; leikur líf á þræði, en luckan vølt er.

Undir eins brestur burði og hug, blankaður fuglinn missir flug, þá vængur verður dár, framan af honum fjaðrir þrjár, fengið hafa allar sár.

2. Einn hefir fellt og aptur reist, einn gat bundið og líka leyst, gaf sár og græddi hag, sorgir veitti' og gleði gaf, gaf hann fyrst og tók síðan af.

3. Láuið því ecki lengur er, enn lént hefir sá, sem ráðin ber, sitt taka maður má, hvað miklu framar sá allt gott á, og allra best kann fyrir að sjá.



# Registur.

Bls.

Bls.



Seg

